Ko 75



# Almanak

fyrir árið

# 1902

sem er sjötta ár eftir hlaupár og annað ár eftir sumarauka.
Reiknað eftir afstöðu Winnipeg-bæjar í Manitoba,

---

## SAFN TIL LANDNÁMSSÖGU ÍSLENDINGA Í VESTURHEIMI OG FLEIRA.

---

## ÁTTUNDA ÁR.

---

ÚTGEFANDI ÓLAFUR S. THORGEIRSSON

---

WINNIPEG,
PRENTAD Í PRENTSMIDJU LÖGBERGS 1901.

Á þessu ári teljast liðin vera:

*frá Krists fæðingu 1902 ár;*

frá sköpun veraldar........,...........5869 ár;
frá upphafi Íslandsbygðar..................1028 "
frá siðabót Lúters......................385 "

---

Árið 1902 er sunnudagsbókstafur: E.
Gyllinital: 3.

---

Milli jóla og langaföstu eru 6 vikur og 4 dagar.

---

MYRKVAR:

Árið 1902 verða 5 myrkvar: 3 á sólu og 2 á tungli, og er að eins einn þeirra sýnilegur hér í álfu: Tunglmyrkivi sá, er byrjar að kveldi hins 16. okt. kl. 11 og 17 mín. og stendur yfir til kl. 2 og 50 mín að morgni þess 17. eða alls 3 klukkut. og 33 mín., en af þeim tíma verður almyrkvi frá kl. 0.09 mín. til kl. 1 og 48 mín. eða alls 1 kl.stund og 39 mín. að morgni þess 17.

---

VENUS er kvöldstjarna til 14. febr., síðan morgunstjarna til 28. nóv., og svo aftur kvöldstjarna til ársloka.

MARS er kvöldstjarna til 29. mars, eftir það morgunstjarna til enda ársins.

JÚPÍTER er kvöldstjarna til 5. jan., eftir það morgunstjarna til 5. ágúst, þá aftur kvöldstjarna til ársloka.

SATÚRNUS er kvöldstjarna að eins til 9. janúar, en svo morgunstjarna til 17. júlí og svo kvöldstj. árið út.

Venus sést skýrast 9. jan. og 22. mars.

# INNIHALD.

# Janúar hefur 31 dag 1902.

[MÖRSUGUR

*Umskurn Krists*, Lúk. 2.

| | | | |
|---|---|---|---|
| M | 1 | Nýársdagur | ◑ Síð. kv. su. 8.28, sl. 4.38 |
| F | 2 | ........................ | Þrælahald aftek. í Bandar. 1863 |
| F | 3 | ........................ | |
| L | 4 | Konráð Gíslason d. 1891 | 11. v. vetrar |

*Barnamorðið í Betlehem*, Matt. 2.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 5 | S. e. nýár | |
| M | 6 | Þrettándi (Epiphania) | |
| Þ | 7 | Knútsdagur | |
| M | 8 | su. 8.24, sl. 4,46 | |
| F | 9 | Napoleon d. 1876 | ● n. t. 8.36 f.m. (þorrat.) |
| F | 10 | ........................ | |
| L | 11 | ........................ | 12. v. vetrar |

*Þegar Jesús var 12 ára*, Lúk. 2.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 12 | 1. s. e. þrett. | Alfred Tennyson f. 1810 |
| M | 13 | Geisladagur | |
| Þ | 14 | | |
| M | 15 | su. 8.18, sl. 5.00 | |
| F | 16 | British Museum op. 1759 | Finnur Jónsson biskup f. 1703 |
| F | 17 | Ben. Franklin f. 1706 | ◐ f. kv. 3.52 f.m. |
| L | 18 | Bulwer Lytton d. 1873 | Webster f. 1784 — 13. v. vetrar |

*Brúðkaupið í Kana*, Jóh. 2.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 19 | 2. s. e. þrett. | |
| M | 20 | Bræðramessa | Ben. Sveinsson sýslum. f. 1826 |
| Þ | 21 | Agnesarmessa | |
| M | 22 | Byron f. 1788 | Victoria dr d. 1901 |
| F | 23 | Gustav Doré d. 1882 | ○ fullt t. 6.14 e. m. |
| ..... | | ........................ .... | ÞORRI |
| F | 24 | Friðrik mikli f. 1712 | Miður vetur. |
| L | 25 | Pálsmessa | Kirkjufélag V.-Ísl, stofnað 1885<br>14. v. vetrar |

*Verkamennirnir í víngarðinum*, Matt. 20.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 26 | Níuviknafasta | 1. s. í níuv. föstu |
| M | 27 | Mozart fæddur 1757 | |
| Þ | 28 | Holberg d. 1754 | París gafst upp fyrir Þj.v. 1871 |
| M | 29 | su. 8,06, sl. 5.17 | McKinley forseti f. 1843 |
| F | 30 | | |
| F | 31 | Spurgeon d. 1892 | Guðbr. Vigfússon d. 1889<br>◑ síð. kv. 0.12 e. m. |

# Syrup of Rocky Mountain Spruce.

það er nú alstaðar viðurkent að vera besta meðalið sem til er á markaðinum við hósta, kvefi og öllum lungna-kvillum. Orðstír þess hefir breiðst út um alt landið alla leið til Kyrrahafs-strandarinnar og norður til endimarka hins mentaða hims. Síðastliðið vor fengum vér stóra pöntun af því meðali frá Dawson City í Yukonhéraðinu. það er að miklu leyti samansett úr kvoðu úr furuviðartegund, sem vex í Klettafjöllunum, sem gerð er að ljúffengu sírópi og blandað með squills, lakrís, viltum kirsuberjum og öðrum vel þektum heilsu-lyfjum. Í því er hvorki ópíum né önnur skaðleg efni, svo það veitir engin vond eftirköst hinni viðkvæmustu heilsubyggingu. það er bragðljúft, það verkar fljótt og læknar kvef hversu gamalt sem er, á stuttum tíma. það mýkir kverkarnar og stillir hinn leiða hósta á nóttunni og gefur hinum þjáða værð og rólegan svefn.

Vér höfum mörg vottorð um ágæti þess. Lesið eftirfylgjandi bréf frá Mr. Lorne Dodd, söðlasmið í Innisfail :—

INNISFAIL, 17. okt. 1898.

Herrar mínir.—Ég hefi brúkað Syrup of Rocky Mountain Spruce, frá yður, við kvefi, sem ég fékk fyrir nokkru síðan. Ég get með góðri samvizku sagt, að sem hóstameðal á það fullkomlega skilið hinn góða orðstír, sem það hefir hlotið hér

## Febrúar hefur 28 daga 1902.

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | ÞORRI. |
| L | 1 | | 15. v. vetrar |
| | | *Fernskonar sáðjörð*, Lúk. 8. | |
| S | 2 | 2. s. í níuviknaföstu | Baldv. Einarss. lögfr. f. 1802 / Kyndilmessa |
| M | 3 | Blasíusmessa | |
| Þ | 4 | | |
| M | 5 | su. 7.55, sl. 5.30 | |
| F | 6 | | |
| F | 7 | Ckarles Dickens f. 1812 | |
| L | 8 | John Ruskin f. 1819 | ☾ nýtt t. 8.45 e. m. |
| | | | 16. v. vetrar |
| | | *Skírn Krists*, Matt. 3. | |
| S | 9 | Langafasta (Sjövíknaf.) | Baldv. Einarss. lögfr. d. 1833 |
| M | 10 | | |
| Þ | 11 | Sprengikvöld | Li Hung Chang f. 1833 |
| M | 12 | Öskudagur-su. 7.45, sl. 5.41 | Abraham Lincoln f. 1809 |
| F | 13 | | |
| F | 14 | Lúters síð. prédikan 1546 | |
| L | 15 | Jón Thorsteinsen land- [læknir d. 1855 | ☽ f. kv. 0.38. e. m. |
| | | | 17. v. vetrar |
| | | *Djöfullinn freistar Jesú*, Matt. 4. | |
| S | 16 | 1. s. í föstu | Melankton f. 1497 |
| M | 17 | M. Angelo d. 1563 | |
| Þ | 18 | Lúter d. 1546 | |
| M | 19 | su. 7.31, sl. 5.54 | Imbrudagar — Sæluvika |
| F | 20 | | |
| F | 21 | | |
| L | 22 | Pétursmessa — Washing [ton f. 1732 | ○ fullt t. 9.30 f. m. -Þorraþræll |
| | | | 18. v. vetrar |
| | | *Kanverska konan*, Matt. 15. | |
| | | | GÓA |
| S | 23 | 2. s. í föstu | |
| M | 24 | Ingemann d. 1862 | Þórður Sveinbj son háyfirdóm. [d. 1856 |
| Þ | 25 | | |
| M | 26 | su. 7.17, sl. 6.05 | |
| F | 27 | Longfellow f. 1807 | General Cronje og 800 Búar |
| F | 28 | | [gáfust upp 1900 |

um slóðir: að það sé eitt hið besta meðal sem þekt sé, við kvillum í kverkum og lungum.

Yðar með virðing, LORNE DODD.

Og það sem fylgir frá Mr. Percy Goulter, félaga í Goulter & Petterson harðvöruverzluninni í Innisfail:—

Herrar mínir.—Syrup of Rocky Mountain Spruce er ágætt meðal við hósta og kvefi. Ég hefir reynt það og þér megið nota nafn mitt í því sambandi. Yðar með virðing,

PERCY GOULTER.

Til sölu allstaðar. Kostar 25c. flaskan.

THE MARTIN, BOLE & WYNNE CO.

---

## ÁGÆTT MEÐAL VIÐ HÖFUÐVERK.

Vér erum á þeirri skoðun að okkar eigið sé það besta meðal við höfuðverk. Það er í laginu eins og obláta, á stærð við 25 centa pening. Þegar það er látið liggja í vatni í hálfa mínútu, verður það lint, og má gleipa það eins auðveldlega og ostru. Í flestum tilfellum er ein obláta nægileg til að lækna höfuðverk, hversu vondur sem hann er. Öskjur með tólf oblátum í eru seldar á 25c. Það eru til fleiri meðöl við höfuðverk, en engin þeirra hafa reynst eins vel og okkar eigið. Biðjið um það.

---

# The Martin, Bole & Wynne Co.

WINNIPEG, MANITOBA.

# Mars hefur 31 dag 1992.

| | | | |
|---|---|---|---|
| L | 1 | | GÓA 19. v. vetrar |
| | | *Jesús rak út djöful*, Lúk. 11. | |
| S | 2 | 3. s. í föstu | ◑ síð. kv. 6.53 f. m. |
| M | 3 | Jónsm. Hólab. h. f. | l. þing Bandaríkjanna 1798 |
| Þ | 4 | | |
| M | 5 | su. 6,55, sl. 6.24 | Oddgeir Stephensen d. 1885 |
| F | 6 | Sveinbj. Egilsson f. 1791 | |
| F | 7 | | |
| L | 8 | Jon Ericson d. 1889 | Jón Thóroddsen d. 1868 |
| | | *Jesús mettar 5000 manna*, Jóh. 6. | |
| S | 9 | Sd. í miðföstu-40riddarar | Merrimac og Monitor Bard. 1862 |
| M | 10 | | ◐ n. t. 6.53 f. m. (Páskatungl) |
| Þ | 11 | | |
| M | 12 | su 6.48, sl. 6,29 | Séra Páll Þorláksson d. 1882 |
| F | 13 | Pocahontas d. 1617 | Guðbrandur Vigfússon f. 1827 |
| F | 14 | Sig. Breiðfjörð f. 1778 | |
| L | 15 | 1. þing Manitoba-fylkis | 21. v. vetrar. |
| | | *Gabríel engill sendur*, Lúk. 1. | |
| S | 16 | 5. s. í föstu- Gvöndardag | ◐ f. kv. 10.39 e. m. |
| M | 17 | Magnús Stephensen kon- | Björn Gunnlaugss. d. 1876 |
| Þ | 18 | [ferensráð d. 1833 | Hinrik Ibsen f. 1828 |
| M | 19 | su. 6.33, sl. 6.40 | Dav. Livingstone f. 1813 |
| F | 20 | | Kossuth d. 1894 |
| F | 21 | Jón Vídalín bisk. f. 1866 | Jafndægur. Vor byrjar. |
| L | 22 | | Göthe d. 1832 22. v. vetrar |
| | | *Innreið Jesú í Jerúsalem*, Matt. 21. | |
| S: | 23 | Pálmasunnudagur | Dymbilvika |
| M | 24 | Longfollow d. 1882 | ○ fullt t. 2.04 f. m. |
| | | | EINMÁNUDUR |
| Þ | 25 | Boðunardagur Maríu | |
| M | 26 | su 6.17 sl 6.51 | Beethoven d. 1827 |
| F | 27 | Skírdagur | John Bright d. 1889 |
| F | 28 | Föftudagurinn langi | |
| L | 29 | Swedenborg d. 1772 | Jón Eiríksson konf. ráð d. 1787 23. v. vetrar |
| | | *Krists upprisa*, Mark. 16. | |
| S | 30 | Páskadagur | Páskavika |
| M | 31 | Annar í páskum | Bjarni Thorsteins. amtm. f. 1781 |

# April hefur 30 daga 1902.

| | | | EINMÁNUÐUR |
|---|---|---|---|
| Þ | 1 | Bismarck f. 1815 | ◐ síð. kv. 9,57 e.m. |
| M | 2 | su. 6.02, sl.7.02 | Emile Zola f. 1840 |
| F | 3 | Sig. Stefánsson, síðastur | Washington Irving f. 1783 |
| F | 4 | [bisk. á Hólum f. 177 | Oliver Goldsmith d. 1774 |
| L | 5 | | 24. v. vetrar |

*Jesús kom að læstum dyrum*, Jóh. 20.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 6 | 1. s. e. páska | Sig. Pétursson sýslum. d. 1827 |
| M | 7 | Channing f. 1780 | |
| Þ | 8 | Kristján IX. f. 1818 | ◯ n. t. 3.37 e.m. (sumart. |
| M | 9 | su. 5,47, sl. 7,13 | |
| F | 10 | | |
| F | 11 | Leonisdagur | |
| L | 12 | | 25.v.vetrar |

*Jesús er góði hirðirinn*, Jóh. 10.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 13 | 2. s. e. páska | |
| M | 14 | | |
| Þ | 15 | Lincoln d. 1865 | ◑ f.kv.10.15 f.m.—Shakespeare |
| M | 16 | su. 5.32, sl. 7.24 | [f. 1564 |
| F | 17 | | Benj. Franklin d. 1790 |
| F | 18 | | |
| L | 19 | Melankton d. 1560 | Byron skáld d. 1854. — Sumar- |
| | | | [mál af 26. v. sum. |

*Burtför Krists til föðursins*, Jóh. 16.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 20 | 3. s. e. páska | Darwin d. 1882 |
| M | 21 | Stríð hefst m. Bandaríkj. | Jón Hjaltalín landlækn. f 1807 |
| Þ | 22 | [og Spánar 1898 | ○ fullt t. 7 20 e.m. |
| M | 23 | su. 5.18, sl. 7.35—Jónsm. | Shakespeare d. 1616 |
| | | [H.b.h. s. | HARPA |
| F | 24 | Dan. Defoe d. 1731 | Sumard. fyrsti. - 1. v. sumars |
| F | 25 | Oliver Cromwell f. 1599 | |
| L | 26 | Moltke d. 1891 | Þrælastríðið hætti 1865 |

*Sending heilags anda*, Jóh. 16.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 27 | 4. s. e. páska | Kossuth f. 1806. |
| M | 28 | | |
| Þ | 29 | | |
| M | 30 | s.u. 5.03, s.l. 7.47 | ◑ síðasta kv. 8.38 f.m. |

# Maí hefur 31 dag 1902.

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | HARPA |
| F | 1 | Tveggjapost.messa | D. Livingstone d.1873 — 2. v. s. |
| F | 2 | | |
| L | 3 | Krossmessa á vori | |
| | | *Biðjið í Jesú nafni*, Jóh. 16. | |
| S | 4 | 5. s. e. páska | |
| M | 5 | | Napóleon Bónap. d. 1821 |
| Þ | 6 | | |
| M | 7 | su. 4.54, sl. 7.57 | ● n. t. 5.45 e.m. |
| F | 8 | Uppstigningardag. | J. Stuart Mill d. 1873—3. v. s. |
| F | 9 | Shiller d. 18(5 | |
| L | 10 | | |
| | | *Þegar huggarinn kemur*, Jóh. 15. | |
| S | 11 | 6. s. e. páska | [f. 1719 |
| M | 12 | J. Herschel d. 1871 | Bjarni Páls s. fyrsti landlæknir |
| Þ | 13 | ....................... | Hudsonsflóafél. stofnað 1670 |
| M | 14 | su. 4.43, sl. 8.06 | ◑ f. kv. 8 40 e.m. |
| F | 15 | Pétur bisk. Péturss. d. '91 | Gr. Thomsen f. 18 20 - 4. v. s. |
| F | 16 | | |
| L | 17 | Tómas Sæmundss. d. 1841 | |
| | | *Sá, sem elskar mig*, Jóh. 14. | |
| S | 18 | Hvítasunnudagur | Helga vika |
| M | 19 | Gladstone d. 1898 | Annar í hvítasunnu |
| Þ | 20 | Columbus d. 1506 | John Stuart Mill f. 1806 |
| M | 21 | su. 4.34, sl. 8 16 Imbrud. | Sæluvika |
| F | 22 | Sæmundur fróði d. 1133 | ○ fullt tungl 5.46 f.m. 5. v. s. |
| F | 23 | | |
| | | | SKERPLA |
| L | 4 | Victoría drottn. f. 1819 | Sig. Stefánss. síðastur biskup á [Hólum d. 1798 |
| | | *Kristur og Nikodemus*, Jóh. 3. | |
| S | 25 | Trínitatis | Þrenningarhátíð |
| M | 26 | | Jónas Hallgrímsson d.1845 |
| Þ | 27 | | Calvin d. 1564 |
| M | 28 | s.u. 4.27, sl. 8.24 | |
| F | 29 | Gísli Brynjólfsson d. 1888 | 6. v. sumars. |
| F | 30 | Eggert Ólafsson d. 1768 | ◐ síð. kv. 7.00 f. m. |
| L | 31 | Jón Guðmundss. ritstjóri d. 1876 | |

# Júní hefur 30 daga 1902.

SKERPLA

*Hinn auðugi maður*, Lúk. 16.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 1 | 1. s. e. trín. | |
| M | 2 | Garibaldi d. 1882 | |
| Þ | 3 | | |
| M | 4 | su. 4.21, sl. 8.31 | |
| F | 5 | | 7. v. sumars |
| F | 6 | Alexander mikl. f. 356 f. K. | ☺ n. t. 1.11 f.m. |
| L | 7 | | Tómas Sæmundsson f. 1807 |

*Hin mikla kvöldmáltíð*, Lúk. 14.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 8 | 2. s. e. trín. | Jón Hjaltalín landlækn. d 1882 |
| M | 9 | Charles Dickens d. 1870 | |
| Þ | 10 | | |
| M | 11 | su. 4.20, sl. 8.37 | |
| F | 12 | W. C. Bryant d. 1878 | ◐ fyrsta kv. 6.34 e.m. - 8. v. s. |
| F | 13 | | Jón Sveinss landlækn. d. 1803 |
| L | 14 | | Sig. Melsteð lektor d. 1897 |

*Hinn týndi sauður og hinn týndi peningur* Lúk. 15.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 15 | 3. s. e. trín. | |
| M | 16 | | |
| Þ | 17 | | Jón Sigurðsson f. 1811 |
| M | 18 | su. 4.20, sl. 8.30 | Bardag. við Waterloo 1815 |
| F | 19 | | 9. v. sumars |
| F | 20 | | ○ fullt t. 9.17 f.m. |
| L | 21 | Kristján Jónss. f. 1842 | |

*Verið miskunnsamir*, Lúk. 6.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 2 | 4. s. e. trín. | Sólstöður: Lengstr dagur |
| | 2 | | SÓLMÁNUÐUR |
| M | 23 | | |
| Þ | 24 | Jónsmessa | Kristni lögt. á Ísl. 1000 |
| M | 25 | su. 4.22, sl. 8.41 | Ágsborgar játn. 1530 |
| F | 26 | | 10. v. sumars |
| F | 27 | | |
| L | 28 | Victoria dr. krýnd 1838 | ◑ s. kv. 4.52 e.m. |

*Hinn mikli fiskidráttur*, Lúk. 5.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 29 | 5. s. e. trín. | Pétursmessa og Páls |
| M | 30 | | |

# Júlí hefur 31 daga 1902,

SÓLMÁNUÐUR

| | | | |
|---|---|---|---|
| Þ | 1 | Dominion-dagur (1867) | |
| M | 2 | Þingmaríum.-su. 4 25, sl. 8.30 | Sviðhúnsmessa h. f. |
| F | 3 | Quebec-borg reist 1605 | 11. v. sumars |
| F | 4 | Frelsisd. Bandaríkj. (1776) | |
| L | 5 | | ● nýtt t. 7.59 f.m |

*Réttlæti farísea*, Matt. 5.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 6 | 6. s. e. trín. | |
| M | 7 | | Jóh. Huss brendur 1415 |
| Þ | 8 | Seljumannamessa | |
| M | 9 | su. 4.32, sl. 8.36 | |
| F | 10 | John Calvin f. 1509 | 12. v. sum. |
| F | 11 | | |
| L | 12 | | ◑ f. kv. 7.58 f.m. |

*Jesús mettar 4000 manna*, Mark. 8.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 13 | 7. s. e. trín. | Margrétarmessa |
| M | 14 | | Franska stjórn. bylt. 1789 |
| Þ | 15 | Sviðhúnsm. h. s. | Krossfar. tóku Jerúsalem 1099 |
| M | 16 | su. 4.39, sl. 8.30 | |
| F | 17 | | 13. v. sumars |
| F | 18 | | |
| L | 19 | | |

*Fals-spámenn*, Matt. 7.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 20 | 8. s. e. trín. — Þorláksmessa á sumri | Guðbr. bisk. Þorlákss. d. 1627; ○ fullt t. 1.45 f. m. |
| M | 21 | R. Burns d. 1796 | |
| Þ | 22 | | |
| M | 23 | su. 4.49, sl. 8.23 | Hundadag byrja- Aukanætur; Finnur Jónss. bisk. d. 1789 |
| F | 24 | Canada fundin 1534 | 14. v. sumars |
| F | 25 | Jakobsmessa | |
| L | 26 | | |

*Hinn rangláti ráðsmaður*, Lúk. 16.

HEYANNIR

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 27 | 9. s. e. trín. | Miðsumar |
| M | 28 | | ◐ síðasta kv. 10.15 e. m. |
| Þ | 29 | Ólafsmessa h. f. | |
| M | 30 | su. 4.54, sl. 8.13 | William Penn d. 1718 |
| F | 31 | Jon Ericson f. 1802 | 15. v. sumars |

# Agúst hefur 31 dag 1902.

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | HEYANNIR |
| F | 1 | Bandadagur | Jón Espólín d. 1836 |
| L | 2 | | Bened. Sveinsson d. 1899 |
| | | *Jesús grætur yfir Jerúsalem*, Lúk. 19. | |
| S | 3 | 10. s. e. trín.- Ólafsmessa | h. s. Nýtt t. 3.17 e m |
| M | 4 | Hannes Finnss. bisk. d. [1796 | H. C. Andersen d. 1875 |
| Þ | 5 | | |
| M | 6 | su. 5,06, sl. 8.02 | Brynj. Sveinsson d. 1675 |
| F | 7 | ........................ | 16. v. sumars |
| F | 8 | ........................ | Canning d. 1827 |
| L | 9 | ........................ | Kapt. Marryat d. 1848 |
| | | *Faríseinn og tollheimtumaðurinn*, Lúk. 18. | |
| S | 10 | 11. s. e. trín. Lafranzm. | f.kv. 1.24 f.m.— 18. v.s. |
| M | 11 | ........................ | |
| Þ | 12 | | |
| M | 13 | su. 5.16, sl. 7 50 | Nansens komudagur 1896 |
| F | 14 | Napoleon 1. f. 1769 | 17. v. sumars |
| F | 15 | Maríumessa h. f. | W. Scott f. 1771 |
| L | 16 | | |
| | | *Daufi og málhalti maðurinn*, Mark. 7. | |
| S | 17 | 12. s. e. trín. | Svb. Egilss. d. 1852 |
| M | 18 | | |
| Þ | 19 | Gest. Pálss. d. 1891 | Fullt t. 1.03 f.m.-19.v. s. |
| M | 20 | su. 5.27, sl. 7.36 | |
| F | 21 | ........................ | 18. v. sumars |
| F | 22 | | |
| L | 23 | | |
| | | *Hinn miskunnsami Samverji*, Lúk. 10. | |
| S | 24 | 13.s. e. trín. Hundadag- [ar enda | Bj. Thórarensen d. 1841 / Hugonotta drápin 1572 |
| M | 25 | | |
| | | | TVÍMÁNUDUR |
| Þ | 26 | Þórð. Jónass. háyfird d. [1880 | Síð.kv. 6.05 f.m. |
| M | 27 | s.u. 5.37 s.l. 7.22 | Ágústín d. 430 |
| F | 28 | L. Tolstoi f. 1828 | Göthe f. 1749 19. v. sumars |
| F | 29 | Höfuðdagur | Jóhannes skírari líflátinn |
| L | 30 | ........................ | Jón bisk. Vídalín d. 1720 |
| | | *Tíu líkþráir*, Lúk. 17. | |
| S | 31 | 14. s. e. trín. | John Bunyan d. 1688 |

## September hefur 31 dag 1902.

| | | | TVÍMÁNUÐUR |
|---|---|---|---|
| M | 1 | | |
| Þ | 2 | Grundtvig d. 1872 | Nýtt t. 0.19 f.m. |
| M | 3 | su. 5.48, sl. 7.07 | Verkamannadagur í Canada |
| F | 4 | Franska lýðv. stofn. 1870 | 20. v. sumars |
| F | 5 | Eyjan Malta hertek. 1800 | |
| L | 6 | | |
| | | *Enginn kann tveimur herrum að þjóna,* Matt. 6. | |
| S | 7 | 15. s. e. trín. | |
| M | 8 | Maríumessa h. s. | Jerúsalem hertekin árið 70 |
| Þ | 9 | ........................ | Fyrsta kv. 5.23 e.m. |
| M | 10 | su 5.57, sl 6.51 | |
| F | 11 | ........................ | 81. v. sumars |
| F | 12 | | |
| L | 13 | Quebec hert. 1759 | General Wolfe d. 1759. |
| | | *Sonur ekkjunnar í Nain,* Lúk. 7. | |
| S | 14 | 16. s. e. trín.—Krossm. á | Wellington d. 1852. McKinley |
| M | 15 | [hausti | [d. 1901 |
| Þ | 16 | su 6.09, sl 6.37 | Moscow brend 1812 |
| M | 17 | Imbrud. *Sæluvika* | Fullt t. 1.03 f.m. |
| F | 18 | Garfield d. 1881 | 22. v. sumars. |
| F | 19 | | |
| L | 20 | | |
| | | *Vatnssjúki maðurinn,* Lúk. 14. | |
| S | 21 | 17. s. e. trín. | Walter Scott d. 1832 |
| M | 22 | | |
| Þ | 23 | Snorri Sturluson d. 1241 | Jafndœgur. Haust byrjar |
| M | 24 | u. 6.19, sl. 6.21 | Síð. kv. 11.32 f. m. |
| | | | HAUSTMÁNUDUR |
| F | 25 | Björn Gunnlaugss. f. 1788 | 23. v. sumars |
| F | 26 | | |
| L | 27 | | |
| | | *Hvers son er Kristur?* Matt. 22. | |
| S | 28 | 18. s. e. trín. | L. Pasteur d. 1895 |
| M | 29 | Mikaelsmessa | |
| Þ | 30 | | |

# Október hefur 30 dag 1902.

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | HAUSTMÁNUÐUR |
| M | 1 | su. 6.32, sl. 6.04 | Nýtt t. 0.09 e.m. |
| F | 2 | Fyrsta járnbr. í Banda- | 24. v. snmars |
| F | 3 | [ríkj. fullgerð 1833 | Pétnr bisk. Pétursson f. 1808 |
| L | 4 | | |
| | | *Limafallssjúki maðurinn*, Matth. 9. | |
| S | 5 | 19. s. e. trín. | |
| M | 6 | Eldadagur. | Tennyson d. 1892 |
| Þ | 7 | ........................ | Edgar A. Poe d. 1849 |
| M | 8 | su. 6.43, sl. 5.49 | |
| F | 9 | Chicago brann 1871 | Fyrsta kv. 0.21 e m. 25. v. s. |
| F | 10 | Kruger (forseti) f. 1825 | |
| L | 11 | | |
| | | *Brúðkaupsklæðin*, Matt. 22. | |
| S | 12 | 20. s. e. trín. | Columbus f. Ameríka 1492 |
| M | 13 | | |
| Þ | 14 | Kalixtusmessa | |
| M | 15 | su. 6.53, sl. 5.37 | |
| F | 16 | ........................ | 26. v. sumars |
| F | 17 | ........................ | Fullt t. .1.01 f.m. |
| L | 18 | Lúkasmessa | |
| | | *Konungsmaðurinn*, Jóh. 4. | |
| S | 19 | 21. s. e. trín. | Jonatan Swift d. 1745 |
| M | 20 | ........................ | Séra Jón Þorláksson d 1819 |
| Þ | 21 | Nelson d. 1805 | |
| M | 22 | su. 7.03, sl. 5.23 | Jón Espólín f. 1769 |
| F | 23 | ........................ | S ðasta kv 5.58 e.m. / Veturnætur (af 27. v. sum.) |
| F | 24 | | GORMÁNUÐUR |
| L | 25 | ........................ | Vetrard. fyrsti. 1. v. vetrar |
| | | *Hinn skuldugi þjónn*, Matt. 18. | |
| S | 26 | 22. s. e. trín | |
| M | 27 | ........................ | Hallgrímur Pétursson d. 1674 |
| Þ | 28 | Tveggja postula messa | (Símon og Júdas) |
| M | 29 | sn. 7.17, sl. 5.08 | |
| F | 30 | Gambetta f. 1832 | |
| F | 31 | Reformazíón Lúters 1517 | Nýtt tungl 3,24 f.m. (vetrart.) |

# Nóvember hefur 30 daga 1902.

GORMÁNUDUR

| | | | |
|---|---|---|---|
| L | 1 | Allra heilagra m. | 2. v. vetrar |

*Jesús prédikar um sælu*, Matt. 5.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 2 | 23. s. e. trín.—Allra sálna [messa | Jenny Lind d. 1887 |
| M | 3 | | |
| Þ | 4 | | |
| M | 5 | su. 7.27, sl. 4.58 | |
| F | 6 | | |
| F | 7 | Li Hung Chang d. 1901 | Jón Arason höggvinn 1550 |
| L | 8 | Milton d. 1674 | Síð. kv. 7.30 f.m. 3 v vetrar |

*Jaírus og blóðfallssjúka konan*, Matt. 9.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 9 | 24. s. e. trín. | Skúli Magnússon d. 1792 |
| M | 10 | Lúter f. 1483 | Oliver Goldsmith f. 1728 |
| Þ | 11 | Marteinsmessa | Schiller f. 1750 |
| M | 12 | su. 7.40, sl. 4.47 | |
| F | 13 | Robert Stevenson f. 1850 | |
| F | 14 | .......... ...... ..... | Rask d. 1832 |
| L | 15 | | Fullt t. 0.06 e.m. 4. v. vetr. |

*Viðurstygð eyðileggingarinnar*, Matt. 24.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 16 | 25. s. e. trín. | Jónas Hallgrímsson f. 1807 |
| M | 17 | ........................ | Suez skurðurinn opnað. 1869 |
| Þ | 18 | ........................ | Garfield f. 1831 |
| M | 19 | su. 7.50, sl. 4.38 | |
| F | 20 | ........................ | Sir Wilf. Laurier f. 1841 |
| F | 21 | Maríumessa | |
| L | 22 | Cecilíumessa | Síð. kv. 2.47 f m 5. v. vetrar |

*Eg þakka þér, faðir*, Matt. 11.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 23 | 26. s. e. trín. | |
| M | 24 | | ÝLIR |
| Þ | 25 | | |
| M | 26 | su. 8.00, sl. 4.30 | |
| F | 27 | Dumas jr. d. 1895 | Grímur Thomsen d. 1896 |
| F | 28 | ........................ | Wash. Irving d. 1850 |
| L | 29 | .... .................... | 6.v. vetrar |

*Innreið Krists í Jerúsalem*, Matth. 21.

| | | | |
|---|---|---|---|
| | 30 | 1. s. í jólaföstu | Aðventa Nýtt t. 9.04 f.m. |

# Desember hefur 31 dag 1902.

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | ÝLIR |
| M | 1 | ........................ | Eggert Ólafsson f. 1726 |
| Þ | 2 | ........................ | Bardaginn við Austerlitz 1865 |
| M | 3 | su. 8.09, sl. 4.26 | Robert Stevenson d. 1894 |
| F | 4 | | |
| F | 5 | ........................ | Mozart d. 1791 |
| L | 6 | ........................ | 7. v. vetrar |
| | | *Teikn á sól, tungli og stjörnum,* Lúk. 21. | |
| S | 7 | 2. s. í jólaföstu | JónSigurðsson d. 1879 |
| M | 8 | Maríumessa | Fyrsta kv. 2.26 f.m, |
| Þ | 9 | ........................ | Milton f. 1608 |
| M | 10 | su. 8.18, sl. 4.26 | Alex. Dumas sr. d. 1870 |
| F | 11 | | |
| F | 12 | ........................ | Skúli Magnússon f. 1711 |
| L | 13 | Lúcíumessa | Jón Þorlákss. f. 1744 - 8. v. v. |
| | | *Jóhannes í böndum,* Matt. 11. | |
| S | 14 | 3. s. í jólaföstu — Washi | ngton d. 1799 Fult t. 10.17 f.m. |
| M | 15 | ........................ | |
| Þ | 16 | | |
| M | 17 | su. 8,32, sl. 4.26 | Imbrudagar. Sæluvika |
| F | 18 | | |
| F | 19 | | |
| L | 20 | ........................ | 9. v. vetrar |
| | | *Vitnisburður Jóhannesar skírara,* Jóh. 1. | |
| S | 21 | 4. s. í jólaföstu | Síð. kv. 3.00 e.m.-Tómasmessa |
| M | 22 | ........................ | Sólhvörf: skem. dagur. |
| Þ | 23 | Þorláksmessa | |
| | | | MÖRSUGUR |
| M | 24 | Aðfangadagur jóla | jólanótt (nóttin helga) |
| F | 25 | Jóladagur | su. 8.28, sl. 4.30 |
| F | 26 | Annar í jólum | |
| L | 27 | Magnús Stephensen kon | ferensráð f. 1762 - 10. v. vetrar |
| | | *Símeon og Anna,* Lúk. 2. | |
| S | 28 | S. m. jóla og nýárs | |
| M | 29 | Gladstone f. 1809 | Nýtt tungl 5.25 e.m. |
| Þ | 30 | Bj. Thórarensen f.1786 | |
| M | 31 | Gamlársdagur | Gambetta d. 1882 |

# SAFN
## TIL LANDNÁMSSÖGU ÍSLENDINGA Í VESTURHEIMI.

---

## Landnám Íslendinga í Norður-Dakota.

*Eftir síra Friðrik J. Bergmann.*

---

### I. RAUÐÁRDALURINN.

Fyrsti Íslendingurinn, er lét sér til hugar koma, að hentugt nýlendusvæði fyrir Íslendinga kynni að vera í Rauðárdalnum Dakota-megin, var síra Páll heitinn Þorláksson. Haustið 1876 fór hann með gufubát frá bæ þeim í Minnesota, er *Fisher's Landing* nefndist, — nú *Fisher*, rétt fyrir sunnan *Grand Forks*, — norður alla Rauðá, alla leið til Winnipeg og þaðan norður til Nýja Íslands. Innflytjenda hópurinn mikli var þá rétt kominn frá Íslandi þangað. Hafði sá hópur nýlega verið fluttur til Winnipeg sömu leiðina af sama skipstjóra og síra Páll fór með. Sagði skipstjóri honum margt af ágætum landkostum í Rauðárdalnum og þótti sárt, að jafn-efnilegt fólk og Íslendingar væru, skyldu fara fram hjá jafn-ágætu nýlendusvæði. Segir síra Páll sjálfur, að skipstjóri hafi hreyft þeirri hugmynd við sig, að hann skyldi snúa þessum inflytjenda hópi aftur suður á bóginn. Mun síra Páll hafa tekið því all-fjarri. Hvorki bar hann enn nokkur kensl á

landkosti í Nýja Íslandi, né heldur getur honum hafa dulist, hvílíkum annmörkum slíkt fyrirtæki væri háð, hve æskilegt sem það annars kynni að vera.

2. BURTFARARHUGUR Í NÝJA ÍSLANDI.

Nú leið og beið. Síra Páll fór til Nýja Íslands haustið 1876 og dvaldi þar nokkura hríð; kyntist hann þá högum og horfum. Svo kom hann þangað aftur í októbermánuði 1877 og var þar um veturinn. Þá var farið að bera þar all-mikið á óánægju með nýlenduna og bar margt til þess. Veturinn 1876—77 geisaði bóluveikin þar í 6 mánuði og hreif burtu fjölda manns, svo margir áttu um sárt að binda. Nýlendan sett í sóttkví, svo allar samgöngur voru bannaðar í 228 daga af árinu. Menn þóttust nú búnir að átta sig á því, að landið væri of-lágt og þess vegna mikils til of-blautt og mýrlent. Ýmsir biðu tjón á heilsu sinni fyrir stöðuga vosbúð, óholt og einskorðað mataræði og ýmsar aðrar hörmungar, er nýlendulífið hafði í för með sér. Var það því ekki að orsakalausu, að þegar vorið 1878 voru heilmargir orðnir óánægðir og sáu þar í nýlendunni enga viðreisnarvon. Mest mun hafa kveðið aðþessari óánægju meðal þess fólks, er síra Páll þjónaði. Að hve miklu leyti sú óánægja kann að hafa verið af hans völdum, skal hér látið ósagt. En óhætt er að fullyrða það, að um þessar mundir muni hann hafa sannfærst um það í hjarta sínu, að Íslendingar mundu þar aldrei koma fótum fyrir sig efnalega, fyrr en þá eftir svo langan tíma, að óráð væri eftir honum að bíða. Enda var hann orðinn gagnkunnugur kjörum og kostum bænda á ýmsum stöðum í Bandaríkjunum og áleit, að Íslendingar, er til Ameríku væru fluttir, ættu ekki að sætta sig við neitt lakara en þeir. Það mun óhætt að fullyrða, að enginn maður í nýlendunni þekti þá neitt líkt því eins vel og síra Páll velmegun þá, er innfluttir bændur á ýmsum stöðum í landinu, bæði Norðmenn og Þjóðverjar, höfðu komist í á skömmum tíma. Má því enginn lá honum þótt

honum um þessar mundir blæddi það meir í augum en nokkurum öðrum manni í Nýja Íslandi, hve afar-illa bláfátækir landar hans stóðu þar að vígi í baráttunni fyrir lífi sínu. Smám saman mun sú fyrirætlan hafa þroskast hjá honum, að leita að heppilegra nýlendusvæði handa löndum sínum, þangað sem bæði þeir gætu horfið, er óánægðir væru í Nýja Íslandi, og hinir, sem koma kynnu frá fósturjörðinni á næstu árum.

### 3. FYRSTU UMBROTIN.

Vorið 1878, 27. apríl, kom gufubáturinn *Lady Ellen* til Gimli, kl. 9 árdegis, með svo-kallað skaðabótahveiti, en lagði af stað aftur áleiðis til Winnipeg klukkan hálf-tólf samdægurs. Tók síra Páll þorláksson sér far með bátnum og tuttugu ísl. unglingar, er ætluðu að leita sér að vistum í Winnipeg og nágrenninu. þrem dögum síðar, 30. apríl, fóru þeir Friðjón Friðriksson, kaupmaður, og Samson Bjarnason á seglbát í kaupskaparerindum til Winnipeg. En með þeim tóku sér far Jóhann Pétur Hallsson, Ásgrímssonar, ættaður frá Geldingaholti í Skagafirði, en síðast frá Egg í Hegranesi, með syni sínum Gunnari og Magnúsi Stefánssyni frá Kjarna í Eyjafirði. Höfðu þeir í hyggju að skoða sig ofurlítið um í heiminum fyrir utan Nýja Ísland. Ætluðu þeir sér að ná síra Páli í Winnipeg og hafa hann fyrir leiðtoga á ferðum sínum. þótti þetta miklum tíðindum skifta í Nýja Íslandi og eiginlega liggja landráðum býsna-nærri; var mikið um ferð þessa rætt manna á meðal.

### 4. SUÐUR FYRIR LANDAMÆRIN.

Magnús Stefánsson hitti ritstjóra einn í Winnipeg, *Hunter* að nafni. Var hann ritstjóri blaðsins *Standard*, gamall maður og fróður og hinn mesti alþýðuvinur. Hafði hann komist við af hörmungunum, er dunið höfðu yfir hina ísl. innflytjendur við Winnipeg-vatn. Benti hann Magnúsi á, að í Dakota-héraðinu, rétt fyrir sunnan landamæri Kanada og Banda-

ríkja, væri ágætt land til akuryrkju. Réð hann honum og þeim félögum fastlega til þess að skoða sig þar um. Átti Magnús tal um þetta við síra Pál, en hann tók þessu all-fjarri og áleit að ritstjórinn væri að fara með blekkingar einar af eigingjörnum hvötum. Sagði hann það verið hafa ætlun sína og þeirra allra að halda suður til Minnesota og skoða sig um í grend við landnám Íslendinga í *Lyon* og *Lincoln-counties*. Sæi hann enga ástæðu til að bregða frá þeirri fyriræltan.

En Magnús Stefánsson og aðrir höfðu orðið hugfangnir af orðum gamla *Hunter's* og fortölum. Fór hann því við annan mann suður til Pembina; sá hét Sigurður Jósúa Björnsson, frá Bæ í Dalasýslu. En síra Páll dvaldi um hríð í Winnipeg, til að hlynna þar að safnaðarmálum meðal Íslendinga. Um miðjan maí mun hann hafa lagt af stað suður. Voru þá í för með honum Jóhann Hallson, Gunnar sonur Jóhanns og Árni Þorláksson Björnsson frá Fornhaga í Hörgárdal. Námu þeir staðar í Pembina til að vita, hvað þeim félögum liði, er suður höfðu farið á undan þeim. Komu þeir þá í sömu andránni vestan úr landi, höfðu skoðað sig þar um í skyndi og voru nú komnir til að láta skrifa sig fyrir jörðum á skrifstofunni þar í Pembina. Nokkuð mun síra Páli hafa þótt þetta fljótráðið. En svo létu þeir mikið af landkostum þar vestur, að hann og samferðamenn hans álitu réttast að skoða sig um þar vestur frá. Veðurblíða var nú komin hin mesta. Lögðu þeir á stað vestur um sléttumar og voru allir fótgangandi. Sáu þeir þá ekki hús nema hér og þar á stangli. Héldu þeir upp til *Cavalier* um kveldið. Það er 25 mílur vestur frá Pembina. Þar var þá kominn póstafgreiðslustaður og sölubúð. Þáðu þeir þar gisting og góða aðhlynning um nóttina hjá þýzkum bónda efnuðum, ættuðum úr Pennsylvania-ríki, *John Bechtel* að nafni (ekki *Bertel*). Gaf hann þeim margar og góðar upplýsingar um landið. Enda studdi hann Íslendinga með ráð og dáð ávalt síðar, þegar þeir leituðu hans, sem ekki var sjaldan fyrstu árin.

## 5. FYRSTA LANDKÖNNUNARFERÐ.

Daginn eftir lögðu þeir enn á stað vestur eftir. Mátti nú svo heita, að þeir væru algjörlega komnir vestur úr öllum mannabygðum. Þeir fylgdu svonefndri Tungá (*Tongue River*) og lögðu leið sína ýmist fyrir sunnan hana eða norðan. Þá komu þeir upp á hæðir þær, sem síðan hafa Sandhæðir nefndar verið, og þótti þeim land þar næsta magurt. En um leið voru þeir komnir svo langt, að hálsar þeir, er Pembina fjöll nefnast, blöstu við þeim. Þegar þeir héldu áfram, komu þeir þar sem landið fór aftur að lækka og urðu þess þá varir, að þar var sami frjósami jarðvegurinn og austur á sléttunum. Leizt þeim einkar vel á landið. Skógurinn lá þar í beltum fram og aftur, en grasi vafðar sléttur á milli. Vestast báru *fjöllin* skógi vaxin við himin. Þó þau hefðu lítið annað sameiginlegt við íslenzku fjöllin en nafnið, gjörðu þessar hæðir sjóndeildarhringinn svipmeiri og voru þarna til traustss og verndar fyrir væntanlega mannabygð, er myndast kynni fyrir neðan þau, hve nær sem mennirnir gjörðust svo hugaðir, að leita þangað skjóls og athvarfs. Það er óhætt að fullyrða það, að hæðir þessar áttu sinn mikla og góða þátt í, að draga huga þessara íslenzku landleitenda að þessu svæði.

Hér námu þeir staðar. Mælti síra Páll svo fyrir, að þeir félagar hans skyldu verða hér eftir til að skoða landið betur. En sjálfur skyldi hann halda suður til Minnesota og skoða sig þar um og jafnframt sunnar í Dakota. En svo mun honum samt þegar hafa sagt hugur fyrir, að austan undir þessum Pembina-hæðum mundi verða líklegasti nýlendustaðurinn. Hélt Magnús Stefánsson og einhverjir með honum í suðurátt til að kanna landið. Komu þeir þar, sem seinna var Vík kallað. Flaut þá vatn yfir alla Víkina og slétturnar þar austur af. Lengst héldu þeir að læk þeim, er Kristinn Ólafsson frá Stokkahlöðum í Eyjafirði síðar nam land við. Voru stórar tjarnir og mikill vatns-

elgur þar sem nú er skraufþurt land. Þóttust þeir nú ærið langt haldið hafa, og örvæntu, að sér mundi afturkvæmt til félaga sinna, svo framarlega lengra væri farið. Sneru þeir þá aftur og þóttust mikið og frítt land séð hafa, en kváðu votlendið helzt til ókosta. Var mönnum næsta illa við það eftir veruna í Nýja Íslandi. En þeir síra Páll hurfu aftur austur til mannabygða og gistu um nóttina hjá norskum bónda, *Bótólfi Ólsen*, sem bjó suðvestur af *Cavalier* og var nýlega fluttur þangað með fjölskyldu sína. Hann tók þeim opnum örmum og gjörði það ávalt síðar, þegar Íslendingar voru á ferðinni. Höfðu þeir oft bækistöð sína hjá honum fyrstu árin, og töluðu þá margir við hann hreina íslenzku, því annað kunnu þeir ekki. Vandist hann og kona hans því svo, að þau voru talin hálfíslenzk orðin. Norðmaður þessi er nú fyrir löngu fluttur burt, en leifar af bjálkakofanum hans standa þann dag í dag.

### 6. ÞEIR JÓHANN HALLSSON SÆKJA FJÖLSKYLDUR SÍNAR OG FARANGUR.

Þeir Magnús Stefánsson og Sigurður Jósúa settust þarna að. Námu þeir lönd í nágrenni við Ólsen og voru þó landkostir þar litlir, því þar er land mjög sendið. Unnu þeir að bændavinnu hjá þeim Bechtel og Ólsen um sumarið. En Jóhann Hallsson og Gunnar sonur hans hurfu aftur snögga ferð til Nýja Íslands. Skoðaði Jóhann ekki lengur huga sinn um, hvað gjöra skyldi, heldur tók sig upp með fólk sitt alt frá Nýja Íslandi og flutti suður. Kom hann, Gunnar sonur hans og Sigurður Jósúa Björnsson til Gimli aftur úr þessari Dakotaferð sinni sunnudaginn 19. maí. Og ekki höfðu þeir meiri viðdvöl en svo, að fjórum dögum síðar, föstudaginn 24. maí, lögðu þeir Jóhann, Sigurður Jósúa og Benedikt Jónsson frá Mjóadal í Bárðardal, sem nú tók sig upp með þeim, af stað með nokkura gripi alfarnir frá Nýja Íslandi. En daginn eftir lagði hið annað fólk þeirra á seglbát af stað frá Gimli;

var það hinn svo-nefndi *York*bátur Samsonar Bjarnasonar. Komust menn til Selkirk á laugardag (25.) og sunnudag (26. maí), en til Winnipeg á mánudaginn (27.) með gufubátnum *Lady Ellen*; samt voru gripirnir reknir landveg.

Í Winnipeg hvíldu menn sig nokkura daga, en lögðu svo af stað þaðan með gufubátnum *Manitoba* suður til Pembina, þriðjudaginn 4. júní; voru gripirnir reknir á landi. Til *Emerson* var komið daginn eftir kl. 10 árdegis, og til Pembina stundu síðar. Fimtudaginn 6. júní var lagt af stað frá Pembina klukkan 8 árdegis. Voru fengin tvenn samok til fararinnar, annað hestar, hitt uxar. Var kvenfólkinu og farangrinum skipað á vagnana, en karlmenn gengu. Viðstöðulaust var svo haldið áfram, þangað til komið var til Bótólfs Ólsen, hins norska, klukkan 10 síðdegis. Fyrir utan þá, sem þegar hafa nefndir verið, voru þeir með í hópnum Gísli Egilsson frá Skarðsá í Skagafirði, Jón Jónsson Hörgdal frá Staðartungu í Hörgárdal og Jónas Jónsson frá Saurbæ í Skagafirði.

## 7. FYRSTI BÚSKAPURINN.

Brátt kom þeim félögum saman um, að nauðsynlegt mundi fyrir þá að fá sér einhver vinnudýr, ef þeir ættu nokkuru áfram að koma. Jóhann Hallsson keypti einn uxa, sem kallaður var *Bush*, og tvíhjólaða kerru, sem öll var telgd úr viði, hið svo-nefnda *Red River Cart*, sem nú sést hvergi, en geymt er á ýmsum söfnum, þar á meðal hinni frægu *Smithsonian Institution* í Washington, sem einn hinn merkilegasti menjagripur úr landnámssögu Norðvesturlandsins. Keypti hann þetta hjá enskumælandi nágranna einum frá Kanada og gaf 75 dollara fyrir. En Jón Hörgdal mun seinna hafa eignast fyrstu samoksuxana og fyrsta fjórhjólaða vagninn. Margskonar verkefni lágu nú fyrir höndum. Eitt var að koma sér upp hreysum fyrir veturinn. Annað var að afla sér nægilegs heyforða handa gripunum yfir veturinn. Og hið þriðja

var að setja plóg í jörð og koma sér upp ofurlitlum akurbletti, er sá mætti í korni á komanda vori.

Jóhann Hallsson nam land sunnan og austan undir skógarbelti því hinu fagra, sem hylur báða bakka Tungár (*Tongue River*), þar sem þorpið *Hallson* stendur þann dag í dag. Þar eru landkostir hinir beztu og jarðvegur sérlega feitur, en land fremur lágt. Reisti hann hús sitt fyrstur manna og var það bjálkakofi, fjórtán fet á lengd, tólf fet á breidd, en veggirnir fimm fet undir ris. Mun húsgerð þessari hafa verið okið 23. júní. En ekki var samt flutt í húsið fvrr en



*Fyrsti bjálkakofinn — heimili Jóhanns Hallssonar.*

laugardaginn 6. júlí og voru það ekki færri en níu manns, sem þar urðu að komast fyrir. Föstudaginn 27. júní ól Ragnheiður Jóhannsdóttir, kona Gísla Egilssonar, barn, klukkan 8.15 síðdegis, og sat Sigurður Jósúa yfir henni. Var það fyrsti Íslendingurinn, er fæddist í nýlendunni. Húsið, er Jóhann Hallsson lét reisa þetta fyrsta sumar, stendur enn sem menjar frá þessari fyrstu landnámstíð og er elzta húsið í allri nýlendunni. Hjálpuðu þeir félagar hver öðrum að húsagerð og heyskap og komu furðanlega miklu til leiðar. Urðu þeir þó oft að vinna hjá nágrönnum sínum, er á undan þeim voru komnir og lengra voru á

leið komnir í búskapnum, til þess að geta veitt sér einhverjar nauðsynjar sínar.

Auk þeirra, sem þegar hafa taldir verið, munu þeir hafa komið suður þetta sumar (1878) og numið lönd Guðni Tómasson frá Tungu í Hörðudal í Dalasýslu og Friðrik Bjarnason frá Hlíð á Vatnsnesi. Nam hinn síðarnefndi fyrst land við hlið Magnúsar Stefánssonar í grend við Bótólf norska.

Fyrsti bústofn Jóhanns Hallssonar voru þrjár kýr og tvö ungviði, auk uxans, er hann hafði keypt sér, og fyrst framan af var eina akdýrið í nýlendunni. Hann lét plægja tvær ekrur af landi fyrsta sumarið. Gat hann sáð í þær hveiti vorinu eftir og gáfu þær af sér 40 *bushel* af hveiti hvor um haustið 1879. Var það fyrsta hveitiuppskeran. Það var slegið með verkfæri því, er *cradle* nefnist. Það er orf og ljár og hrífa í einu. Hrífan er að eins 4—5 tindar ofan á ljánum og jafn-langir honum. Var hveiti þetta það haust flutt á einum uxa fimm mílur, til að fá þresking á því hjá innlendum manni, sem orðinn var svo mikill bóndi, að hann átti þreskivél. Síðan var því ekið til bæjarins *Walhalla* á hveitimylnu og malað úr því hveitimjöl. Annað sumarið (1879) voru fjórar ekrur plægðar í viðbót.

Ekki var lífið sérlega ríkmannlegt þennan fyrsta vetur, eins og ekki var við að búast. Til fæðis höfðu menn helzt jarðepli, hveitimjöl til brauðs, dálítið af mjólk, en mjög lítið af kjötmat. Samt vildi það stöku sinnum til, að menn keyptu dýrakjöt af Indíánum fyrir eitthvert lítilræði, helzt hveitimjöl. Var það álitin sérstök hátíð á sunnudögum og öðrum tillidögum, ef svo bar vel í veiðar, að unt var að hafa dýrakjöt á borðum. Einn bóndinn hafði alls ekkert kjöt fyrsta veturinn nema eitt gripslær, er hann keypti hjá nágranna sínum einum, og hugsaði mikið um, hve nær sér mundi takast að borga.

## 8. FRÁ PÁLI PRESTI ÞORLÁKSSYNI

Um sumarið dvaldi síra Páll hjá söfnuðum sínum í Wisconsin. En í september lagði hann af stað áleiðis norður til Nýja Íslands. Þriðjudaginn 24. sept: heimsótti hann Jóhann Hallsson, er orðið hafði honum samferða suður um vorið, en nú var búinn að koma sér fyrir með fólk sitt ásamt nokkurum fleiri á hinu fyrirhugaða nýlendusvæði í Pembina county. Má nærri geta að koma hans til Jóhanns og þeirra hefir verið þeim hið mesta fagnaðarefni. Hann hafði skoðað ónumin lönd sunnar í Dakota og eins í Minnesota, en komist að þeirri niðurstöðu, að hvergi væri land eins álitlegt fyrir Íslendinga og hér, bæði sökum skóganna, sem annars staðar voru engir, og frjóvsemi jarðvegarins. Svo nú var hann ákveðinn í því í huga sínum að snúa sem flestum frá Nýja Íslandi til Dakota. Daginn eftir að hann kom, fór hann í landskoðun snemma morguns. Um kvöldið skírði hann fyrsta Íslendinginn, sem fæðst hafði í Pembina Co., og var hann nefndur *Hallur* eftir langafa sínum. Um kvöldið fór síra Páll til Bótólfs Ólsen, hins norska, og var þar um nóttina. Hélt svo áfram leiðar sinnar ofan til Nýja Íslands.

Snemma í desembermánuði kom hann aftur til nýlendunnar. Hafði hann þá skroppið suður til *Chicago* og var Ólafur Þorkelsson frá Reykjavík í för með honum. Flutti hann þá íslenzka guðsþjónustugjörð yfir Íslendingum í húsi Bótólfs Ólsen, hins norska, og tók fólk til altaris. Var það fyrsta íslenzka guðsþjónustan, er haldin var í Pembina County (5. des. 1878) og var það á virkum degi. Í janúar vitjaði síra Páll nýlendunnar aftur. Hafði hann keypt sér hest, þegar hann var á ferðinni næst áður. Fór Gunnar Hallsson með hann til Pembina til móts við síra Pál 11. janúar og komu þeir upp eftir til Ólsens þann 16. En á sunnudaginn næstan eftir (19. jan.) flutti hann aðra guðsþjónustu hjá Bótólfi norska.

## 9. FLEIRI FARA FRÁ NÝJA ÍSLANDI.

Smám saman voru ýmsir að koma suður þennan vetur til að heimsækja Jóhann Hallsson og skoða sig um. Meðal hinna fyrstu var Jón Bergmann frá Syðra-Laugalandi á Staðar-bygð í Eyjafirði. Hann kom til Jóhanns 30. janúar. Daginn eftir lögðu þeir upp í landskoðunarferð, Jóhann Hallsson og hann, þótt um vetur væri, og skoðuðu land á 8 mílna svæði suður af landnámi Jóhanns og þeirra félaga; hafa því farið suður fyrir Vík (nú *Mountain*). Hvarf Jón Bergmann aftur úr þeirri landskoðun sinni ofan til Bótólfs Ólsen 1. febrúar. Seint í febrúar kom Guðmundur Jóhannesson úr Skagafirði frá Nýja Íslandi einnig til að skoða sig um. Í marz (8.) lögðu þeir Jón Bergmann, Jón Hallgrímsson frá Botni í Hrafnagilshrepp í Eyjafirði og Jón nokkur Arason, enn á ný upp í landskoðunarferð og fóru þá lengra suður á bóginn en nokkurn tíma hafði áður verið farið og leizt allvel á sig. Ritaði Jón Bergmann löng og greinileg bréf niður til Nýja Íslands og sagði bæði kost og löst á hinu nýja landnámi með svo mikilli sanngirni og gætni, að orðum hans var algjörlega trúað, og höfðu því bréf hans mjög mikil áhrif á hugi manna, þótt þau eiginlega hvettu engan til fararinnar og forðuðust algjörlega allar gyllingar. (Samanber orð síra Páls sjálfs, að þessu lútandi, í Almanakinu 1901, bls. 43).

Um vorið 1879 varð því mjög mikill útflutningur frá Nýja Íslandi til nýlendunnar í *Pembina County*. Settust þeir, er þá fluttust suður, flestir að í grend við landnám Jóhanns Hallssonar á svo-nefndum Sandhæðum. En það er breiður og ávalur hávaði eða hryggur í norðausturhluta nýlendunnar. Þar var land þurt og hátt og þokkalegt og leizt mönnum, sem komnir voru úr forunum í Nýja Íslandi, þar einna bezt á sig um þessar mundir. Eru þó landkostir þar fremur litlir, því jarðvegur er mjög sendinn og gefur litla uppskeru, nema þegar mikið úrfelli er á sumrum.

Meðal þeirra, er fluttu suður á þessu vori, voru þessir: Jón Jónasson, læknir, frá Saurbæ í Skagafirði, Samson Bjarnason frá Hlíð á Vatnsnesi, Pálmi Hjálmarsson frá Þverárdal í Húnavatnssýslu, Jón Einarsson frá Aðalbóli á Jökuldal í Norðurmúlasýslu, Benedikt Ólafsson frá Eiðstöðum í Blöndudal í Húnavatnssýslu, Jónatan Halldórsson frá Húki í Miðfirði í sömu sýslu, Jósef Schram frá Egg í Hegranesi, Hallgrímur Hallgrímsson Hólm frá Löngumýri í Hólmi, Bjarni Jónasson úr Hegranesi, Jason Þórðarson frá Sigríðarstöðum í Vesturhópi, Ólafur Guðmundsson frá Arnarbæli, Jakob Jónsson frá Reykjavík, Jóhann Breiðfjörð úr Dalasýslu, Einar Scheving frá Stórasandfelli í Skriðdal í Suðurmúlasýslu og Árni Scheving, bróðir hans, Guðmundur Þórðarson frá Núpi í Vopnafirði, Páll Jóhannsson frá Víkingavatni í Þingeyjarsýslu og Bjarni Guðmundsson Dalsteð frá Sauðafelli í Miðdölum í Dalasýslu.

## 10. VÍKUR-BYGÐ HEFST.

Snemma um vorið 1879 hafði síra Páll Þorláksson farið suður til *Shawano County* í Wisconsin og vitjað íslenzka safnaðarins þar. Mun það þá hafa ráðist með honum og þeim, er þar höfðu numið land, að þeir tækju sig sem fyrst upp og flyttu norður í hið nýmyndaða ísl. landnám í Pembina County. Faðir hans, Þorlákur Jónsson frá Stóru-Tjörnum í Ljósavatnsskarði og bræður hans, Haraldur, Jón og Björn, seldu eignir sínar og lögðu á stað norður snemma sumars. Voru í förinni með þeim tveir menn, ungir og ötulir, Sigurjón Sveinsson frá Garði í Aðalreykjadal, er síðar varð tengdasonur Þorláks, og Benedikt Jóhannesson frá Eiríksstöðum á Jökuldal. Einnig var Kristinn Kristinnsson frá Ljótsstöðum í Vopnafirði með í förinni. Höfðu þeir verið um nokkur ár suður í Michigan- og Wisconsin-ríkjum, ýmist á bátum, er ganga á stórvötnunum þar suður frá, eða við bændavinnu á sumrum og skógarhögg á vetrum. Óku þeir á vögnum

alla leið norður, lögðu af stað með fjóra hesta og keyptu eina samokshesta á leiðinni. En þegar þeir komu til Minnesota, seldu þeir alla hesta sína fyrir kýr og uxa. Komu þeir þangað, sem nú heitir *Mountain*, snemma í júlí. Nokkuru fyrr var síra Páll kominn með móður sína. Höfðu þau ferðast norður með járnbrautum. Um þetta leyti höfðu engir numið land kring um Mountain. Var búið í tjöldum fram undir veturnætur. Síra Páll bjó hjá Gísla Egilssyni um sumarið í grendinni við Jóhann Hallson. Var nú farið að kalla þann hluta bygðarinnar Hallson-bygð. Aftur var landnám þeirra Þorlákssona nefnt *Víkur*-bygð, vegna þess, að þar ganga tveir skógartangar fram, annar að sunnan, hinn að norðan, en skóglaus flötur all-stór á milli, er þá var oft flotinn yfir af vatni. Myndaði hann einskonar vík, sem gengur inn úr sléttunni, er liggur þar austur af eins langt og augað eygir, endalaus og ómælanleg eins og hafið, upp að hæðinni fyrir vestan, sem öll er skógi vaxin og myndar fyrsta hjallann af svonefndum *Pembina*-fjöllum. Þar er útsýni hið fegursta, en skjól hið bezta á vetrum, því öll hæðin var um þetta leyti vaxin þykkum og voldugum eikarskógi. Þarna uppi á hæðinni, fyrir miðjum botni þessarar svonefndu víkur, nam síra Páll Þorláksson land, en Haraldur bróðir hans nokkuru sunnar, svo landnám hans náði fram í syðri skógartangann. Jón Þorláksson kaus sér land austur af víkinni.

Þetta sumar munu þessir bændur hafa numið land í grend við Víkina: Sveinn Sveinsson frá Sviðningi í Kolbeinsdal í Skagafirði. Hann bygði fyrstu kofana, er reistir voru á því svæði, einn þar sem Haraldur Þorláksson nam land, annan á landareign Guðmundar Jóhannessonar, þriðja þar sem Guðmundur Guðmundsson, sonur Guðmundar Jóhannessonar, nú býr; þar ætlaði Sveinn sjálfum sér jarðnæði; en auk hans námu þessir lönd: Indriði Sigurðsson frá Syðra-Laugalandi í Eyjafirði, Guðmundur Jóhannesson frá Víðirnesi í Hjaltadal í Skagafirði, Sveinbjörn Jóhannesson frá

Veðramóti í Skörðum í Skagafirði, Sigurður Jakobsson úr Dalasýslu, Jón Jónasson frá Nýjabæ í Hólasókn í Eyjafirði, Sigurbjörn Hansarson frá Jarlstaðaseli í Bárðardal.

## 11. PARK-BYGÐ HEFST.

Í júnímánuði um sumarið var farin ný landkönnunarferð í beina átt norður frá Bótólfi Ólsen, norska, og alla leið norður undir landamæri Kanada og Bandaríkja. Voru í ferð þeirri Jón Bergmann, Sigurjón Sveinsson, sá er kom sunnan frá Wisconsin með þeim Þorlákssonum, Bótólfur norski og fleiri. Að kvöldi dags voru þeir komnir að mýri einni mikilli og grösugri. Urðu þeir þar varir við mesta ógrynni af Indíánum í grendinni. Um leið og Indíánar urðu varir við ferð hinna hvítu manna, stukku þeir til hesta sinna og héldu af stað eins og til móts við þá. Fór þá landkönnunarmönnunum ekki að verða um sel, og þóttust vita, að Indíánarnir ætluðu sér að umkringja þá og, ef til vildi, vinna þeim eitthvert mein. Mintust þeir þess, að ekki alls fyrir löngu höfðu Indíánar myrt tvo hvíta menn suður á sléttum fyrir engar sakir. Bótólfur norski mun hafa ráðið fyrir förinni, því hann var búinn að ala mestan aldur sinn í landinu og hafði meðal annars verið í her Norðurríkjanna í þrælastríðinu; stóð honum samt engu minni stuggur af Indíánunum, en þeim Íslendingunum, er í færri stórráðum höfðu verið. Mælti nú Bótólfur svo fyrir, að þeir félagar skyldu halda beinni stefnu eftir sem áður og ekkert látast fara úr leið fyrir Indíánum; annars mundu þeir álíta, að verið væri að flýja fyrir þeim. Héldu hvorirtveggja leiðar sinnar, en þó svo, að þeir stefndu nokkuð til hliðar hvorir við aðra. En það voru Íslendingarnir hræddir um, að gjört mundi af ásettu ráði, til þess Indíánarnir gætu alt í einu slegið hring um þá. Hópur landkönnunarmanna var fótgangandi; samt höfðu þeir hinn ótrauða reiðskjóta síra Páls með sér, *Úlfar*, til að hvíla sig á til skiftis. Þegar þeir voru komnir

nokkurn veginn á hlið hvorir við aðra, bundu þeir félagar Úlfar nndir runna einum, en skriðu sjálfir inn í grasið, sem var ákaflega hátt, og földu sig þar. Voru þeir þar hver nálægt öðrum, og þó með nokkuru millibili, mæltu ekki orð af munni og létu hvorki hósta né stunu til sín heyrast. Álitu þeir, að með þessu móti kynni svo að fara, að einhver þeirra fyndist ekki og kynni af að komast, til að segja frá leikslokum, þótt Indíánarnir festu höfuðsvörð hinna við belti sér. Þarna lágu þeir í grasinu þangað til klukkan tvö um nóttina. Þóttust þeir þá orðnir þess áskynja, að Indíánarnir mundu hafa haldið leiðar sinnar, án þess að hafa nokkuð ilt í huga.

Engan annan árangur hafði þessi landkönnunarför en þann, að hugur þessara manna hallaðist meira og meira að því, að heppilegast væri að leita sem lengst suður á bóginn. Varð það úr, að nokkuru leyti fyrir áeggjan Jóns Bergmanns, að þeir Sigurjón Sveinsson og Benedikt Jóhannesson námu land langt fyrir sunnan alla aðra Íslendinga. Völdu þeir sér lönd fyrir sunnan læk þann, er *Park River* nefnist ; er hann eiginlega norðasta kvíslin af dálítilli á með því nafni. Er þykkur og myndarlegur skógur þar á báðum bökkum, en sléttlendi bæði fyrir sunnan og norðan. Sléttan fyrir norðan skóginn er nokkuð grítt og fekk snemma á tímum nafnið *steina-prería.* En fyrir sunnan skóginn er einmuna land til akuryrkju, og útsýni hið fegursta; taka skógarbeltin þar við hvert af öðru. Var þetta kallað suður við Park, af því það var syðst frá sjónarmiði nýlendumanna, og bygðin, er hér hófst, var nefnd Park-bygð. Lét Jón Bergmann sér vera það áhugamál, að þeir félagar settust hér að, því honum var ant um, að nýlendusvæðið yrði sem stærst, enda sá hann landkosti góða eftir því sem sunnar dróg. Vildi hann fyrir hvern mun, að það svæði yrði sem allra-víðlendast, er Íslendingar gætu numið, því hann sá í hendi sér, að innan skamms mundu koma ýmsra þjóða menn úr öllum áttum og nema lönd hver í kapp

við annan. Höfðu þeir Benedikt og Sigurjón félagsbú og voru manna bezt kjörnir til þess að hætta sér langt inn í óbygðirnar, því þeir voru menn miklir fyrir sér, og hinir hugrökkustu, báðir ókvæntir og höfðu því léttum hala að veifa. Fremur voru híbýli þeirra lágreist fyrst í stað,—ekki nema dálítill kjallari, sem reft var yfir.

## 12. Störf nýlendumanna sumarið 1879.

Vér hverfum nú aftur í huga norðast í bygðina þar sem fyrstu landnámsmennirnir höfðu sezt að fyrir ári síðan. Jóhann Hallson lét plægja 4 ekrur af landi í viðbót við akurblettinn, sem hann átti frá árinu áður. Flestir, ef ekki allir, nágrannar hans munu eitthvað hafa látið plægja á jörðum sínum. Því það skildu menn þegar í upphafi, að hér hlaut akuryrkja að verða aðalatvinnuvegurinn. En í henni voru menn fákunnandi eins og við var að búast, og urðu því smám saman að læra af nágrönnum sínum. Gegnir furðu, hve fljótt og vel það tókst, þar sem hér áttu menn hlut að máli, er naumast höfðu nokkurn tíma séð plóg settan í jörð áður þeir komu hingað. Keptust þá allir við að heyja, því nú var um að gjöra að koma upp nokkurum gripastofni. Auk þess voru margir til þess neyddir að leita sér vinnu annars staðar, til þess að geta aflað sér klæðnaðar og viðurværis.

Þeir Þorlákssynir voru ekki aðgjörðalausir eftir að þeir settust að í Víkinni. Þeir plægðu einar sjö ekrur á jörð Jóns Þorlákssonar fyrir austan Víkina. En Þorlákur Jónsson tíu ekrur ofar í Víkinni. Þar næst var farið alment að heyja og var heyskapurinn rekinn af miklu kappi. Slegið var með orfi og ljá, því enn átti enginn sláttuvél. Heyjaði Haraldur Þorláksson svo mikið þetta sumar, að hann gat tekið 30 gripi til fóðurs um veturinn af *Bechtel*, þýzka bóndanum í grend við Cavalier. Galt hann 6 dollara fyrir hvert höfuð í fóðurlaun. Um haustið fóru þrettán Íslendingar úr nýlendunni suður á hinn mikla búgarð, er *Grandin*

nefnist, því nær 140 mílur í suður; unnu þeir þar í tvo mánuði fyrir eins dollars kaup á dag að kornskurði og þresking. Um haustið seint lét Páll prestur gjöra sér hús á jörð sinni. Var það reist uppi á brekkunni, þar sem útsýn var bezt. Var það 18 fóta breitt og 24 fóta langt og þótti stórhýsi. Allir voru veggirnir úr höggnum eikarbjálkum. Átti hann eina samoksuxa, *Bock* og *Bright*, og voru þeir alt af á ferðinni til Pembina og *St. Vincent*, sem þá var stundum nefnt sánkti Finsen af þeim, er ekki voru vel að sér í ensku, en þeir voru nú á þessum dögum æði-margir. Flutti prestur í hús þetta um haustið og var móðir hans bústýra fyrir hann. Haraldur Þorláksson gjörði sér einnig hús á jörð sinni áður vetur gekk í garð. Þetta sumar komu tveir lúterskir prestar að heimsækja síra Pál; var annar þeirra þýzkur; hinn norskur, *Harstad*, að nafni. Kom hann til að virða fyrir sér nýlendusvæðið og kynna sér hag og framtíðarhorfur nýlendumanna.

Sigurjón Sveinsson plægði 8 ekrur á jörð sinni um sumarið. Átti hann eina samoksuxa, er hann hafði komið með að sunnan. Um haustið vann Benedikt Jóhannesson suður í Minnesota og kom með annað uxasamok og nokkura gripi heim aftur. Sigurjón var heima og heyjaði mikið. En um haustið geisuðu sléttueldar vestur um öll fjöll og ofanfyrir þau. Náðu þeir alla leið ofan til Cavalier. Í þeim eldum brunnu öll hey Sigurjóns. Hafði hann geymt spariföt sín í einum heystakknum, því lítið var um húsakynni og brunnu þau með. Sjálfur var Sigurjón fjarri, þegar eldarnir geisuðu yfir.

Um haustið fór síra Páll suður til *Goose River* til *Harstad* prests hins norska, er komið hafði að heimsækja hann um sumarið. Safnaði hann þar hveitikorni, er hann fekk hjá norskum bændum, mikið fyrir tillögur Harstad prests, handa nýlendumönnum til útsæðis um vorið. Fekk hann ekki nema fáein *bushel*

í hverjum stað. Gjörði þá síra Páll boð eftir föður sínum og Gísla Egilssyni að koma suður þangað með tvenna samoksuxa. Tíndu þeir svo saman hveitigjafir þessar hjá bændum og óku hveitinu suður til *Fargo*, sem var 50 til 60 mílur suður af þessari Norðmannabygð. Seldu þeir hveitið þar, því oflangt var að aka því norður. Tók síra Páll við andvirðinu og varði því til að kaupa hveiti til útsæðis handa bændum vorið eftir.

## 13. VETURINN 1879-80.

Um þessar mundir taldist síra Páli svo til, að um 50 landnámsmenn mundu komnir og búnir að taka sér bólfestu austan undir Pembina heiðunum. Voru það alt bláfátækir menn eins og nærri má geta. Þeir höfðu rifið sig upp allslausir frá Nýja-Íslandi og alt verið af þeim reytt upp í svonefnda stjórnarskuld. Burtflutningurinn var gjörður þeim eins torveldur og frekast var unt og voru töluverðar viðsjár meðal manna útaf honum. Því þeir, sem fyrir nýlendumálum stóðu þar, álitu, að með þessum burtflutningi ætti að eyða þá fjölmennu bygð, er þar var hafin fyrir tveim-þremur árum. Þeir, sem tóku sig nú upp og fluttu frá Nýja-Íslandi suður til Dakota, urðu því nær allir að fara fótgangandi og voru það 160 mílur eftir þeirri leið, sem farin var. Þegar þetta fólk setti sig niður á jarðir sínar, var það því eins uppgefið og hrakið og mest mátti verða. Flest neyddist það til að búa í tjöldum fram undir veturnætur. Þá var hrofað upp húskofum, er mjög voru af vanefnum gjörðir á allar lundir. Að eins fáeinir höfðu getað leitað sér atvinnu um sumarið svo að nokkuru munaði. Aldrei hafa nokkurir nýlendumenn staðið verr að vígi. Þeir voru mikið verr farnir en þegar þeir komu frá Íslandi. Þau litlu efni, sem margir höfðu þá afgangs ferðakostnaði, höfðu tálgast af þeim. Þá var fólkið hraust og fjörugt og vonglatt og gekk að því með kappi og áhuga að koma sér upp nýjum heimkynnum í skógunum við vatnið. En aldrei hafa nokkurir menn orðið fyrir meiri þrautum né von-

brigðum. Landið var ekki annað en fen eitt og foræði og fjöldi fólks varð heilsulaust fyrir stöðugan vaðal. Viðurværið var bæði óholt og ónóg og hefir það að líkindum ekki minst dregið kraft og kjark úr fólkinu. Bóluveikin kom og hver maður mátti annaðhvort eiga von á því að verða sjálfur burtkallaður þann og þann daginn eða að verða að sjá ástmennum sínum á bak. Fólkið hrundi niður eins og hráviði úr þessari hræðilegu drepsótt. Það mátti svo heita, að þetta fólk rifi sig frá opnum gröfum ástvina sinna; svo voru harmar þess nýafstaðnir, þegar það brauzt út úr prísundinni. Til þess að komast það og inn á hið nýja nýlendusvæði, varð það að neyta síðustu leifanna af þeim þrótti, er það átti eftir. Nú stóð veturinn fyrir hendi, langur og grimmur, og fjöldinn af þessu fólki því nær bjargarlaus. Hver undur þá, þótt kjarkurinn vildi bila hjá mörgum, Enda kvað svo ramt að því, að heilmargir óskuðu sér aftur að vera komnir niður í hörmungarnar í Nýja-Íslandi.

Nærri má geta, hve áhyggjufullur síra Páll hafi verið um haustið. Hann hafði verið hvatamaður að burtflutningi frá Nýja-Íslandi. Hann hafði valið nýlendusvæðið. Nú hafði hann í kring um sig heilan hóp af blásnauðu, bjargarlitlu fólki, og hann sá í hendi sér, að svo sem ekkert mátti út af bera, til þess það dæi ekki úr hungri eða harðrétti um veturinn. Alt þetta fólk leit til hans sem föður, ekki einungis í andlegum efnum, heldur líkamlegum. Það ætlaðist til þess, að hann sæi því ekki að eins fyrir andans brauði, heldur einnig daglegu brauði.

Það er naumast hægt að gjöra sér hugmynd um, af hverju menn lifðu þennan vetur. Heilmikið af næpum og rófum var keypt af innlendum mönnum nálægt Hallson. Haraldur Þorláksson fór til Pembina, sjálfsagt að ráði síra Páls, bróður síns, og fekk nokkuð af matvöru hjá *Yerxa* kaupmanni. Hljóp það hátt á 4. hundrað dollars. Setti hann alla gripi sína í veð fyrir skuldinni. Fór svo heim með vörur þessar og tók að

lána út, því um peninga var ekki að tala. En snemma um veturinn vildi það voðaslys til, að hús hans brann og mikið af vörunum. Seinna um veturinn fekk hann aftur hér um bil jafn-mikið af vörum hjá sama kaupmanni.

Benedikt Jóhannesson varð að flytja sig með gripi sína norður í Vík, byggja þar handa þeim skýli og fá þar fóður. Hafði hann það af, að írskir menn komu og tóku jörð hans. Varð hann að kaupa hana aftur af þeim fyrir 35 dollara. Þar að auk varð hann að kaupa að þeim ýmsa búslóð, tjald og annað rusl, sem þeir skildu eftir, fyrir 15 doll. En rétt á eftir kom lögreglumaður neðan frá *Drayton* og tók þetta alt af Benedikt, því það hafði þá verið veðsett öðrum, og þessir Írar mestu misindismenn. Kofa höfðu þeir gjört á jörð Benedikts; í honum voru hvorki gluggar né hurð. Samt svaf Benedikt í honum annað veifið, bæði sumar og vetur, í tvö ár. Í horninu einu var ofn, gjörður úr leir, eins og hann kom fyrir í jörðinni; mundi hann ef til vill ekki hafa fullnægt fegurðartilfinning manna nú á dögum, en með honum var hægt að hita upp kofann, og það þótt eigi væri sem skjóllegast búið um dyr og glugga, þegar kalt var á vetrum.

Þegar bágindin voru sem mest í Nýja-Íslandi, hafði síra Páll leitað styrks hjá Norðmönnum í Wisconsin og Minnesota og höfðu þeir látið töluvert af hendi rakna. Hafði það stutt marga til að komast af stað frá Nýja Íslandi og koma sér fyrir í Dakota. Var hann dæmdur óvægt fyrir þetta af mörgum mótstöðumönnum sínum, er héldu því fram, að öllum liði vel, og engin ástæða væri til að leita nokkurar hjálpar. Álitu þeir, að það væri Íslendingum mjög til minkunar. Var jafnvel reynt til að tortryggja hann og ófrægja meðal Norðmanna, til að koma í veg fyrir, að styrkurinn fengist. Um þetta hlýtur dómur óvilhallra manna ætíð að verða sá, að síra Páll hafi með allri framkomu sinni í þessu efni framið eitt hið göfugasta kærleiksverk, sem nokkur Íslendingur hefir fengið gæfu

til að gjöra, og að það hafi verið fásinna mikil og ranglæti að færa honum það til verra vegar. Enginn sá þá nema hann, hvað lífsnauðsynlegt var að gjöra, til að bjarga fólkinu, og enginn annar en hann hefði haft kjark og dug til að framkvæma það, þó hann hefði séð það.

Í vandræðunum um veturinn 1879—80 hélt hann áfram að leita til Norðmanna um styrk handa þeim, sem fátækastir voru, enda var það víst ekki um skör fram, því mörg heimili voru stundum bjargarlaus í einu. Allir sneru sér til síra Páls og ætluðust til, að hann bætti úr vandræðunum. Leitaði hann þá oft til næstu bænda innlendra um það, er vanefnaði í hvert skifti, og varð þá sjálfur að ganga í ábyrgð fyrir að borgað væri á tilteknum gjalddaga. En þann vitnisburð gefur síra Páll fólkinu, að það hafi haldið spart á öllu þennan tíma, og leitast við að draga alla lífsbjörg á langinn eftir því, sem mögulegt var, það bætti heldur ekki úr, að veturinn var kaldur og grimmur og snjóasamur. Allan þennan vetur mun síra Páll hafa heima verið. Jón Bergmann var oftast hjá honum og smíðaði um veturinn sleða og ýms nauðsynja áhöld. En nú fór allmikið að bera á heilsuleysi síra Páls, brjóstveikinni, sem að síðustu leiddi hann til bana. En kjarkur hans var með öllu óbilaður; áhuginn og kappið brennandi, að koma nýlendunni á fastan fót og sjá öllu borgið,

## 14. BARÁTTA SÍRA PÁLS FYRIR HAG NÝLENDUNNAR.

Snemma um vorið mun síra Páll hafa farið suður til Minnesota. Hafði hann farið þá ferð bæði til að leita sér lækninga og til að vera í ýmsum útvegum fyrir nýlenduna. Hafðist hann mest við hjá kaupmanni einum norskum, sem heima átti í *Northfield*, dálitlum bæ í Minnesota, og Haraldur Þórisson nefnist. Meðan hann dvaldi þar, varð hann þess var, að ritað hafði verið á móti honum frá Nýja Íslandi í norsk blöð í þeim tilgangi að gjöra tilraunir hans um styrk hjá Norðmönnum til burtflutnings frá Nýja Íslandi og við-

halds nýlendunni í Dakota tortryggilegar. Var þetta eflaust sprottið af óttanum, sem þar hafði risið upp fyrir því, að Nýja Ísland mundi eyðast af fólki. Ekki lét síra Páll heitinn þessar blaðagreinir á sig fá, heldur hugsaði með sér, að nú mætti hann ekki vera iðjulaus lengur. Fór hann til kaupmannsins, sýndi honum, hvað ritað hafði verið á móti honum, og spurði, hvað hann ætti nú að gjöra til að hjálpa við góðu máli. Varð það úr, að kaupmaður lánaði honum 100 tunnur hveitis og 40 nautgripi til tveggja ára. Fekk síra Páll kauplausan flutning á þessu með járnbraut alla leið norður til St. Vincent. Má nærri geta, að lyftast tóku brýrnar á landanum, þegar fregnin um þetta barst vestur undir fjöllin. Eftir þetta fekk síra Páll hest lánaðan hjá kaupmanni og reið þar út og suður meðal bænda. Að litlum tíma liðnum lét hann ,,reka þrjátíu og fjóra gripi inn í rétt kaupmanns, sem þá bætti við níu gripum frá sér". Á þessu fekk hann aftur flutning án endurgjalds hjá járnbrautarfélaginu alla leið norður. Sjálfur fór hann í þetta sinn líka norður og tveir Norðmenn með honum að gæta gripanna. Var fögnuður mikill yfir feng þessum meðal nýlendumanna og urðu þeir hinir vonbeztu um að rakna færi fram úr fyrir þeim. Fjöldi af blásnauðu fólki var nú kominn frá Nýja Íslandi, svo gripirnir hurfu á svipstundu og margir sátu eftir með sárt ennið, án þess að hafa nokkuð fengið. Gripi þessa mun síra Páll hafa fengið upp á tveggja ára lánsfrest með vanalegum vöxtum við mjög vægu verði. Átti hann svo að skila eigendum gripanna skuldaviðurkenningum (*Notes*) kaupendanna. Mun hann því hafa látið hvern kaupanda gefa slíka viðurkenning um leið og hann veitti grip viðtöku. En vegna þess hann var nú búinn að hleypa sjálfum sér í stórskuldir með lánum, er hann hafði hvað eftir annað orðið að taka handa nýlendubúum, seldi hann gripina við nokkuð hærra verði, en hann hafði fengið þá fyrir, og mun því hafa notað sumar af ávísunum þessum til lúkningar þeim af slík-

um skuldum, er honum fyrst bar að borga fyrir bygðina. Skýrði síra Páll þetta sem allra greinilegast hann mátti fyrir mönnum á fundum. En skilningur manna á gangi viðskiftalífsins hér í hinum nýja heimi var mjög ófullkominn um þessar mundir, og fjöldi manna mun hreint ekki hafa skilið, hvað það þýddi, að gefa skuldaviðurkenning fyrir ákveðinni upphæð, er gjaldast átti á tilteknum gjalddaga með áföllnum vöxtum,

Af því, sem síra Páll sá, hve öldungis ónógur sá gripastofn var, er nýlendan enn hafði fengið, og stóð stuggur af þeim bágindum, er upp kynnu að koma í bygðinni, bauðst hann nú enn til að fara af stað og útvega fleiri gripi. Hann var sjálfur sannfærður um, að nýlendan væri sloppin, ef nógu margar kýr fengjust fyrir næsta vetur. Í júlímánuði lagði hann enn af stað, en fór þá ekki nærri eins langt suður í Minnesota. Þar ýmist reið hann eða ók um á meðal Norðmanna; voru norskir sóknarprestar oft með honum og lögðu honum liðsyrði. Á þennan hátt ferðaðist hann um í tvo mánuði og mun hafa fengið loforð fyrir 85 nautgripum, eldri og yngri, 65 sauðkindum, auk dálítils af peningum, eins og hann sjálfur segir. Komu menn norðan úr nýlendu til að hjálpa honum norður með þennan fénað og var komist með hann heilan á hófi að mestu leyti upp í íslenzku bygðina 2. október um haustið. Kvaddi nú síra Páll heitinn þrjá menn til að leggja sanngjarnt verð á gripi þessa. Með því skilyrði voru þeir svo lánaðir út um bygðina, að hið tiltekna söluverð yrði borgað á þremur árum, einn þriðjungur á ári, vaxtalaust. Hafði síra Páll fengið fé þetta lánað til þriggja ára, án vaxta, en sumt sem hreinar gjafir. En til þess nú að geta gefið öllum þeim, er hann hafði tekið lán hjá handa bygðinni, fullnæga trygging, seldi hann alla gripina, eins þá sem gefnir höfðu verið. Hefði það víst ekki gjört betur en hrökkva til, þótt alt hefði goldist. Mundi hann að líkindum hafa lagt fram nákvæma skýrslu yfir alla þessa frammistöðu sína, ef

honum hefði enzt aldur til. Nú voru beztu líkur til að bygðin mundi bjargast næsta vetur og vera um leið sloppin úr öllum vandræðum.

## 15. FLUTNINGUR FRÁ NÝJA ÍSLANDI.

Vorið og sumarið 1880 var flutningur mikill frá Nýja Íslandi til Dakota. Bar margt til þess, en einkum sívaxandi sannfæring manna fyrir því, að í Norður-Dakota væri heppilegt nýlendusvæði. Svo bar líka við um vorið, að vatnsgangur varð mikill í Nýja Íslandi, þegar snjór þiðnaði og ísa leysti, eins og von var eftir þennan óvenjulega snjóþunga vetur. Winnipeg-vatn flæddi út um alla bygð, svo híbýli manna ýmist fyltust vatni eða urðu meira og minna um flotin. Þóttust þá jafnvel meðhaldsmenn þeirrar nýlendu sannfærast um, að landið væri oflágt og staðurinn ekki heppilegur. Var þvf öll veruleg mótspyrna gegn útflutningi látin falla niður. Því miður er nú ekki unt að tilgreina alla þá bændur, er um þetta leyti fluttu suður til Dakota frá Nýja Íslandi, en nokkura þeirra skulum vér nú nefna. Þessir námu lönd í grend við Jóhann Hallson: Björn Jónsson frá Sleitustöðum í Óslandshlíð í Skagafirði, Jóhann Jóhannsson frá Steinstöðí Tungusveit í Skagafirði, Sölvi Sölvason frá Löngumýri í Húnavatnssýsiu, Indriði Indriðason frá Laxamýri, Sigurjón Kristjánsson, tengdasonur Björns Jónssonar frá Sleitustöðum og Sigurbjörn Björnsson, sonur hans, Jón Pétursson frá Kolgröf í Skagafirði, Sigurður Rögnvaldsson frá Vöglum í Blönduhlíð, Jóhannes Sigurðsson úr Svarfaðardal, Hallgrímur Hallgrímsson Hólm frá Löngumýri í Hólmi í Skagafirði. Jón Hjálmarson frá Hvarfi í Bárðardal í Þingeyjarsýslu.

Aftur námu þessir land í Vfkur-bygð: Guðmundur Guðmundsson frá Hnausakoti í Miðfirði; Halldór Friðriksson frá Kvennabrekku í Dalasýslu, Halldór Þorgilsson frá Hundadal í Dalasýslu, Jóhannes Jónasson frá Grafagerði í Skagafirði, Elína Jónasdóttir, ekkja frá Hvammi í Höfðahverfi í Suður-Þingeyjar-

sýslu, Tryggvi Ingimundarson Hjallalín frá Nöf við Hofsós í Skagafirði, Guðmundur Skúlason frá Reykjavöllum í Lýtingsstaðahrepp í sömu sveit, Hallgrímur Jónsson frá Helgárseli í Eyjafjarðarsýslu, Björn Einarsson frá Brú á Jökuldal, Jónas Kortsson frá Sandi í Aðalreykjadal, Sigurður Árnason frá Grænumýrartungu í Strandasýslu, Jón Sigurðsson og Hallbera úr Strandasýslu, Sigurgeir Bjarnason frá Sveinatungu í Norðurárdal í Mýrasýslu, Björn Illhugason frá Kolafossi í Miðfirði, Guðmundur Gíslason frá Húki í Miðfirði, Sigurður Kráksson frá Kaupangi í Eyjafirði, Ólafur Ólafsson frá Espıhóli í Eyjafirði.

### 16. PARK-BYGÐ FÆRIST ÚT.

Vorið 1880 námu land hér um bil tvær mílur suður af landnámi þeirra Sigurjóns Sveinssonar og Benedikts Jóhannessonar, þeir Jón Bergmann og Magnús Stefánsson, tengdasonur hans, sá er fyrst nam land niður við Cavalier. Sömuleiðis systir Jóns, Aldís Jónasdóttir Laxdal (fædd Bergmann), ekkja Gríms heitins Laxdal, bókbindara á Akureyri. Var þetta fólk þá um vorið syðst allra Íslendinga.

Maður er nefndur Eiríkur Bergmann Hjálmarsson, Eiríkssonar, prests á Þóroddsstað í Köldukinn; en móðir Eiríks var Valgerður Jónasdóttir Bergmann frá Garðsvík á Svalbarðsströnd, systir Jóns Bergmanns og þeirra systkina. Tók Eiríkur upp ættarnafn móður sinnar, þegar hann kom til Ameríku. Eiríkur var ungur og ókvæntur maður, liðlega tvítugur, þegar hann fluttist frá Íslandi 1873 frá Syðra-Laugalandi á Staðarbygð, þar sem hann hafði verið um nokkur ár hjá Jóni Bergmann, móðurbróður sínum. Dvaldi hann fyrst um hríð í Wisconsin-ríki, nam land í íslenzku nýlendunni í *Shawano-County*, seldi það norskum manni, flutti svo vorinu eftir til Minnesota, nam land í Lyon Co. rétt hjá Gunnlaugi Péturssyni, kvæntist snemma veturinn 1876 Ingibjörgu, dóttur Péturs Hallgrímssonar Thorlacíus og Kristínar Ólafsdóttur frá

Stokkhlöðum í Eyjafirði. Sumarið 1879 seldi hann jörð sína í Minnesota efnuðum bónda, sem kom frá Íslandi það sumar, Birni Gíslasyni frá Hauksstöðum. Sama haustið fór hann kynnisför norður til Pembina County, skoðaði sig þar rækilega um, leizt vel á sig, hugði þar landkosti góða og réð með sér að flytja þangað norður að vori. 16. maí vorið 1880 lagði hann af stað með konu sína, son á fyrsta ári, Friðrik Pétur, tengdamóður, systur hennar, Þóreyju Ólafsdóttur frá Munkaþverá í Eyjafirði, Einar Thorlacíus frá Akureyri og son hans, Hallgrím Thorlacius, er tekinn hafði verið til fósturs af þeim tengdaforeldrum Eiríks. Í förinni voru einnig Kristinn Ólafsson frá Stokkahlöðum og síðast Víðirgerði í Eyjafirði með stóra fjölskyldu, Jón Brandsson frá Brekku í Saurbæjarsveit í Dalasýslu, með konu og börn, Hafliði Guðbrandsson frá Hvítadal í Dalasýslu, Kristján Samúelsson frá Máskeldu í sömu sveit og Guðmundur Jónsson úr Tungusveit í Strandasýslu. Ók fólk þetta á uxum alla leið norður og var næstum fjórar vikur á leiðinni. Kom það á laugardag í Vík. Var áð þar með konur og börn og farangur allan í tvo-þrjá daga meðan bændurnir skoðuðu sig um suður við *Park*-lækinn, því þar var þeim helzt í hug að berast fyrir. Þar hafði Eiríkur Bergmann fengið augastað á landbletti sunnan undir skóginum, rétt við hliðina á landnámi þeirra Benedikts Jóhannessonar og Sigurjóns Sveinssonar þegar haustinu áður. Þeir samferðamenn hans hurfu líka brátt aftur og sóttu fólk sitt og farangur. Námu þeir þá lönd sín Eiríkur Bergmann, Kristinn Ólafsson, Jón Brandsson, Hafliði Guðbrandsson, Kristján Samúelsson og Guðmundur Jónsson. Á landi Eiríks, sem Norðmaður einn hafði ánafnað sér, var húskofi, sem hægt var að flytja inn í og búa í, þangað til um haustið, að búið var að gjöra betra hús. Hinir gjörðu hreysi á löndum sínum eins fljótt og við varð komið og lá fólkið á meðan á vögnunum, sem tjaldað var yfir. Eiríkur hafði um 20 gripi, 10 kindur og þrenna samoksuxa, Jón

Brandsson uxasamok, Kristján og Hafliði uxa og vagn í samlögum. Allir munu þeir hafa haft meira og minna af öðrum gripum.

Snemma þetta sumar og nokkuru áður en fólk þetta kom að sunnan námu þeir einnig land við Park-lækinn Árni Þorleifsson frá Botni í Eyjafirði og Jón Hallgrímsson, fóstursonur hans, Benedikt Jónsson Bárðdal frá Mjóadal í Bárðardal, Grímur Einarsson frá Klausturseli á Jökuldal, Ólafur Jónasson frá Halldórsstöðum í Köldukinn í Þingeyjarsýslu, ásamt stjúpsonum hans, Magnúsi Magnússyni og Jóhannesi Magnússyni (Melstað). Sigurgeir Björnsson frá Haga í Vopnafirði nam land nokkuru sunnar og Jónas Hallgrímsson (Hall) frá Fremstafelli í Kinn.

Um haustið komu íslenzku bændurnir frá Shawano County, allir, er eftir voru, og námu land við Park, eins og það þá var kallað. Voru það þessir: Hallgrímur Gíslason frá Rútsstöðum í Eyjafirði, Jón Jónsson frá Mjóadal í Bárðardal, bróðir Benedikts Jónssonar, sem áður er talinn, Guðmundur Stefánsson og sonur hans Stefán Guðmundsson, skáldið, síðast úr Bárðardal, Grímur Þórðarson frá Dalgeirsstöðum í Miðfirði með móður sína og systkini. Kvenfólk sitt höfðu þeir sent norður með járnbraut, en sjálfir gengu þeir alla leið og ráku gripi sína; fóru hér um bil 25 mílur á dag. Var vegalengdin öll hálft níunda hundrað mílur. Var komið fram í októbermánuð, er þeir komu. Þetta haust kom líka Gísli Jónsson Dalmann með konu og börn frá Milwaukee. Hann var bróðir þeirra Jóns og Benedikts frá Mjóadal og nam land hjá bræðrum sínum.

Af því fólkið frá Wisconsin og Minnesota settist flest að við Park og af því það var flest miklu betur efnum búið en það fólk, er suður flutti frá Nýja-Íslandi, lagðist sá orðrómur á, að í Park-bygðina veldust mestu kraftmennirnir.

17. BÚSKAPURINN SUMARIÐ 1880.

Flestir munu hafa reynt til að koma sér upp einhverjum akurblettum þetta sumar, þótt fremur væri í smáum stíl. Þeir bræður Þorlákssynir í Vík hættu við akurinn austur í Víkinni á landi Jóns, þar sem hann þótti illa gefast, og plægðu nú einar 20 ekrur á jörð Björns Þorlákssonar suðvestur af Víkinni. Var þar þó land miklu lélegra. Þótti það fjarska mikill akur á þeim dögum. Eiríkur Bergmann lét plægja 20 ekrur á jörð sinni. Sigurjón Sveinsson, er um veturinn hafði unnið á Kyrrahafsbrautinni norður í Kanada, var nú heima, en Benedikt, félagi hans, úti í vinnu. Hafði nú Sigurjón tvenna samoksuxa og plægði með þeim öllum. Fekk hann elzta son Kristinns Ólafssonar til að hjálpa sér. Plægðu þeir um 60 ekrur um sumarið og þótti vel gjört. Sumir nýlendumanna hugsuðu alls ekkert um akuryrkju, en lögðu alla stund á heyskapinn og höfðu litla trú á öðru; hélst það nokkuð fram eftir hjá sumum. Þóttust þeir þá beztir, sem góð höfðu heyskaparlönd. Þetta sumar var ákaft rigningasumar svo tími varð naumur til heyskapar. Áður höfðu menn heyjað með orfi og ljá eins og títt var á Íslandi. En nú fengu bæði Tungármenn og Víkur-menn sér sláttuvél og var mikið með þeim slegið. Var þá Daníel Laxdal, sem nú er málafærslumaður í *Cavalier*, drengur um ferming með síra Páli. Komst hann manna fyrst upp á að stýra sláttuvélinni og höfðu menn þá mikla lotningu fyrir þeirri kunnáttu og lipurð, er til þess þyrfti. ,,Ja, þvílíkur drengur!" sögðu menn, þegar á það var minst, eins og í hálfgjörðri örvænting um, að nokkur mundi verða honum jafn-snjall. Var slegið með vélum þessum fyrir fjölda nágranna um sumarið, svo flestir öfluðu sér mikilla heyja. — Síra Páll átti tvo litla hesta af indíánsku og frakknesku kyni. Hétu þeir Úlvar og Kapp. Samoksuxa átti hann líka; hétu uxarnir *Bock* og *Bright*. Voru þeir nokkurn veginn alt af á ferðinni til Pembina og St. Vincent bæði til að sækja fólk

og vörur, og nöfnin á bæði uxunum og hestunum eins alþekt og mannanöfn.

Við Park keypti Eiríkur Bergmann einnig sláttuvél þetta sumar og heyjaði mikið. Varð hann samt að tefjast við eins og aðrir vegna örðugra aðdrátta. Hann varð að sækja þakspón, hurðir og glugga og annað efni í hús, er hann lét gjöra um sumarið, alla leið til Pembina.

Þeir félagar, Sigurjón og Benedikt, áttu nú einar 8 ekrur af hveiti, er þeir höfðu sáð í um vorið. Fengu þeir af þeim bletti eitthvað 200 bushel af hveiti um haustið. Kom þreskivél frá Cavalier, er Bechtel átti. Var þá lengra fyrir þreskivélarnar að fara, heldur en nú gjörist. Þegar vél þessi var búin að þreskja hjá Sigurjóni, varð hún að fara 11 mílur ofan til *Crystal*; var þar þá næsti bóndinn, er hveiti hafði til að þreskja. Hét maðurinn, sem vélinni stýrði, *John Gaffney*, og er hann Íslendingum síðan að góðu kunnur. Þetta var nú fyrsta hveitiuppskeran á Garðar. Seldu þeir Sigurjón og Benedikt þetta hveiti nágrönnum sínum til útsæðis. — Tíu ekrurnar, sem plægðar höfðu verið í Víkinni, gáfust illa, eins og áður er á vikið; hafði verið orðið of áliðið, þegar plægt var, svo akurinn fyltist illgresi. Samt kom þar þreskivél um haustið; mun sá hafa heitið *Peterson* og verið norskur, er hana átti. En vatnið fraus í katlinum um nóttina, áður en byrja átti, svo hún varð frá að hverfa við svobúið. Mun hafa verið barið úr því hveiti um veturinn. — 12. nóvember um haustið var þreskt hjá Jóhanni Hallssyni; hét sá *Williams*, sem vélina átti. Gengu hestar fyrir flestum þreskivélum um þessar mundir. Munu þeir hafa verið einir 5 íslenzkir bændur, sem það hveiti áttu, sína ögnina hver, Jóhann að líkindum mest. Fengu þeir allir til samans 196½ *bushel* hveiti.

Nokkuð var orðið áliðið, þegar þreskt var hjá sumum í þetta sinn, þótt ekki væru akrarnir stórir og sjaldan hafi mönnum meira legið á að fá kornhnefann sinn út mældan en þá. Ólafur Einarsson frá Rangá í

Hróarstungu í Norðurmúlasýslu hafði numið land á svo-nefndum Sandhæðum í grend við Jón Einarsson. Hann átti von á þresking um jólin og þeir nágrannar hans, enda vakti einn þeirra hann upp á jóladagsmorguninn og var þá svo glaður yfir því, að nú mundi loks takast að fá þresking, að hann mælti á ensku fremur af vilja en mætti. „*Plenty weather to-day*", sagði hann á glugganum, en hefir líklega ætlað að segja: *Splendid weather to-day* og gefa með því tilkynna, að mikið mætti þreskja um daginn. Hét sá *Andersen*, er vélina átti og var norskur. Þreskti hann fyrir Íslendinga bæði fyrsta og annan dag jóla og var þá ekki fengist um þótt brotin væri helgin.

### 18. ÍSLENDINGAR GJÖRAST ÞEGNAR BANDARÍKJANNA.

Áður en nýlendumenn voru ritaðir fyrir jörðum sínum á skrifstofum stjórnarinnar, urðu þeir að gjöra grein fyrir því, hve nær þeir fyrst hefðu stigið fæti á land í Bandaríkjunum, vinna eið að því, að það væri einlægur ásetningur þeirra að gjörast borgarar Bandaríkjanna, þegar tími væri til kominn, og sverja sig um leið úr hollustu við alla konunga og keisara jarðarinnar, en einkum og sér í lagi við Kristján IX., konung í Danmörk. Munu flestir hafa gjört það án þess að taka mikið út með því. En skamt voru flestir á leið komnir í því að skilja, hverja þýðing það hefði, að gjörast amerískur borgari, eins og gefur að skilja.

Sumarið 1880 var í fyrsta sinn haldin ofurlítil fagnaðarsamkoma á frelsisdegi Bandaríkjanna. Þetta sumar bar hann upp á sunnudag, svo hátíðin var ekki haldin fyrr en á mánudaginn næstan eftir, eins og ávalt er títt í landi þessu. Á jörð Jóns nokkurs Jónassonar frá Nýjabæ á Hólagrundum í Eyjafirði, spölkorn suðvestur af Víkinni, þar sem Björn Guðmundsson Núpdal býr nú, var flötur einn fagur, sem Leikvöllur var nefndur. Var hann kallaður svo vegna þess, að þar sáust ljós vegsummerki þess, að Indíánar höfðu

verið þar að leikum, áður en Íslendingar komu; höfðu þeir að líkindum haldið þar herdans eins og þeim er títt. Þessi flötur var nú valinn fyrir samkomustað. Þótti þetta nýstárlegt mjög og kom býsna margt fólk, sumt langar leiðir. Þar voru menn norðan frá Tungá eins og t. d. Gísli Egilsson og fleiri. Sunnan frá Park voru Eiríkur Bergmann með sitt fólk, Jón Brandsson með konu og börn og ýmsir fleiri. Síra Páll hélt stutta ræðu og bað gestina velkomna, en var mjög lasinn, svo hann talaði færra en að vanda. Þar voru menn að leikum allan daginn og skemtu sér ágætlega. Þar veittu ýmsar helztu konurnar kaffi og brauð, íslenzkar pönnukökur og norskar *lepsur*, og þar drukku menn ágætt límónaði. Ekki héldu aðrir ræður en síra Páll.

Þriðjudaginn 2. nóvember um haustið 1880 var fyrsti opinberi kosningafundurinn haldinn í Vík. Voru menn þá fremur ófróðir í stjórnfræðilegum efnum, eins og ekki var furða. Skyldi þá kjósa þingmenn fyrir Dakota-héraðið. Höfðu tveir menn innlendir sótt bændur heim nokkurum dögum áður og troðið að þeim kjörseðlum. Vissu margir ekkert, hvað með þá skyldi gjöra, og varð tíðrætt um öll þau brögð, er undir því mundu búa. Á þessum kjörfundi var tækifæri til að fá borgarabréf (*intentional papers*), í stað þess að fara ofan til Pembina, eins og vanalega var gjört, og fá það þar. Voru þeir margir, sem notuðu sér það.

## 19. SÖFNUÐIR MYNDAST.

Sumarið 1880 flutti síra Páll guðsþjónustur á þrem stöðum í bygðinni: Við Tungá, í Vík og suður við Park í húsi Eiríks Bergmanns. Sunnudaginn 4. júlí fermdi hann 7 börn, 4 pilta og 3 stúlkur, í Vík. Ekki reyndi hann að mynda söfnuði fyrr en um haustið, að mesta annríkistíð var um garð gengin. 24. nóvember hélt hann fund við Park í því skyni að stofna söfnuð. Sjálfur stýrði hann fundinum samkvæmt

kosning fundarmanna, en Stefán Guðmundsson (skáldið) var skrifari. Fundargjörningur er færður inn í safnaðarbók síra Páls og eru þar taldir upp allir, er á fundi voru, og voru það þessir: Eiríkur Bergmann, Jón Bergmann, Benedikt Jónsson Bárdal, Jón Brandsson, Jón Hallgrímsson, Grímur Þórðarson, Árni Þorleifsson, Jón Jónsson, Grímur Einarsson, Hallgrímur Gíslason, Kristinn Ólafsson, Sigurgeir Björnsson. Samþykt var að mynda söfnuð, er kallaðist Parksöfnuður. Síðan voru safnaðarlög síra Páls frá Nýja Íslandi samþykt hér um bil óbreytt. Grímur Einarsson kvaðst óviðbúinn og greiddi aldrei atkvæði. Sigurjón Sveinsson og Gísli Jónsson Dalmann komu ekki á fundinn fyrr en safnaðarlögin voru að mestu leyti rædd og samþykt. Létu þeir vilja sinn í ljós um að ganga í söfnuðinn, en kváðust þurfa að hugleiða safnaðarlögin áður. Þeir Eiríkur Bergmann, Jón Bergmann og Hallgrímur Gíslason voru kosnir safnaðarfulltrúar, Stefán Guðmundsson skrifari, Hallgrímur Gíslason féhirðir, Eiríkur Bergmann og Stefán Guðmundsson meðhjálparar, Sigurjón Sveinsson forsöngvari og til vara Jónas Hallgrímsson (Hall). Samþykt var, að söfnuðurinn kallaði síra Pál fyrir prest og skyldi hann þjóna honum að þriðjungi. Ákvarðað var, að kirkjugarður eða grafreitur skyldi vera á landi Jóns Hallgrímssonar. Á fundinum skrifuðu menn sig fyrir gjaldi til prests, eftir því sem hver treysti sér til, og komu liðugir 50 dollars á listann, en auk þess lofuðu margir að senda presti eitt *bushel* af höfrum og annað af hveiti.

Næsti safnaðarfundur var haldinn í Vík 30. nóvember, til að mynda þar söfnuð og ræða um kirkjukirkjubygging að því búnu. Var presturinn kjörinn til þess að stýra fundi, en Þorlákur Jónsson, faðir hans, til skrifara. Nöfn þeirra manna, er fundinn sóttu, voru þessi:

Haraldur Þorláksson, Jón Þorláksson, Guðmundur Þórðarson, Björn Þorláksson, Pétur Sigurðsson,

Jónas Kortsson, Sigurður Árnason, Guðmundur Jóhannesson, Sigurður Jónsson, Gísli Jónsson, Jón Davíðsson, Sigurgeir Bjarnason, Sigurbjörn Hansarson, Hreggviður Sigurðsson, Björn Einarsson, Benedikt Ólafsson, Bjarni Dalsteð, Árni Jónsson, Þorsteinn Þorláksson, Jósef Guðmundsson, Hallgrímur Holm, Sigurður Jakobsson, Sveinbjörn Jóhannesson, Tryggvi Ingimundarson Hjaltalín, Hans Níelsson, Sveinn Sveinsson, Halldór Þorgilsson, Björn Illhugason, Sigurður Kráksson, Guðmundur Guðmundsson, Ólafur Ólafsson, Baldvin Helgason, Þorlákur G. Jónsson, alls 33. Skýrt var frá safnaðarfundinum, sem haldinn hafði verið við Park. Samþykt að stofna söfnuð, er nefnast skyldi Víkursöfnuður. Safnaðarlögin sömu samþykt. Einn fundarmaðurinn, Jónas Kortsson, kvaðst að vísu ekkert hafa á móti safnaðarlögunum, en sagðist þó ei að svo stöddu geta gengið í þetta safnaðarfélag. Þorlákur Jónsson, Ólafur Ólafsson og Haraldur Þorláksson voru kosnir fulltrúar. Meðhjálparar Baldvin Helgason og Halldór Fr. Reykjalín. Féhirðir Benedikt Ólafsson. Varaféhirðir Ólafur Ólafsson. Forsöngvari Jón V. Þorláksson, en til vara Haraldur Þorláksson. Arsfundur skyldi haldinn næsta miðvikudag eftir nýár. Skyldu guðsþjónustur haldnar í söfnuðinum 3. hvern sunnudag, þegar ástæður prestsins leyfðu. Síðan hreyfði síra Páll kirkjubyggingarmáli. Kvað hann bráða þörf á, að menn eignuðuðust eitthvert samkomuhús fyrir guðsþjónustur og aðra nauðsynlega mannfundi. Fremur fekk það daufar undirtektir og báru menn fyrir annir og frumbýlingsskap. En samt var prestinum falið, að gangast fyrir þessari húsbygging og reyna að koma henni sem fyrst til leiðar, ef hann sæi sér fært. Á fundinum skrifuðu menn sig fyrir gjaldi til prests og urðu 95 dollars á listanum; en auk þess lofuðu margir hveiti, höfrum, jarðeplum og dagsverkum.

Við Tungá var söfnuður ekki myndaður fyrr en eftir nýár 1881. Var þá fundur haldinn 2. janúar í

húsi J. P. Hallssonar. Fundarmenn voru þessir: Jón Hörgdal, Gísli Egilsson, Jónatan Halldórsson, Bjarni Jónasson, Sigurður póstur, Jón Einarsson, Jónas Halldórsson, Jóhannes Jónasson, Gunnar Jóhannsson, Jóhann Schram, Sölvi Sölvason, Jakob Jónsson, Sigfús Ólafsson, Ólafur Johnsen, Sigurður Jósúa, Tómas Kristjánsson, Jóhann P. Hallsson, Pálmi Hjálmarsson, 18 alls. Síra Páll var forseti, Pálmi Hjálmarsson skrifari. Samþykt að mynda söfnuð, er nefnast skyldi Tungár-söfnuður. Safnaðarlög síra Páls samþykt óbreytt. Menn rituðu sig fyrir loforðum til prestsgjalda og söfnuðust 55 dollars á listann, auk loforða um hveiti, hafra, jarðepli og dagsverk eins og gjört hafði verið í hinum öðrum söfnuðum. Til fulltrúa voru kosnir Sigurður Jósúa, Jón Hörgdal og Pálmi Hjálmarsson. Til meðhjálpara Sölvi Sölvason og Pálmi Hjálmarsson, til féhirðis Jón Hörgdal, til skrifara Pálmi Hjálmarsson, til forsöngvara Gunnar Jóhannsson (Hallsson).

## 20. VETURKNN 1880—81.

Eins og sést af því, er þegar hefir sagt verið, var nú fólk orðið býsna margt í nýlendunni. Allir voru nú farnir að sjá, að þetta ætlaði að verða blómleg bygð og fólksmörg. Um sumarið 1880 höfðu æðimargir kraftmenn komið úr ýmsum áttum, bæði frá Minnesota, Wisconsin og Winnipeg. Vonir manna voru því um þessar mundir hinar beztu. Þegar veturinn gekk í garð, kviðu menn honum ekki nærri því eins og næsta haust á undan, því nú hafði bygðin fengið töluverðan gripastofn og flestir bændur eitthvað úr jörð og nógan heyforða. Mjög var nú vetrarforðinn samt af skornum skamti, eins og við var að búast, hjá ótal mörgum, og ef vér gætum nú horft inn í híbýli manna eins og þau voru þá, mundi oss blöskra fátæktin. Samt voru menn furðanlega ánægðir, glaðir og fjörugir. Heilbrigði manna á meðal var hin bezta, svo að naumas nokkur dó eða var veikur. Allir lifðu í beztu von um

að hér mundi hagur þeirra smám saman blómgast og þeir með tímanum geta orðið sjálfstæðir menn. Veturinn leið og var miklu mildari og betri en sá næst á undan. Með vorinu áttu menn von á mörgum nýjum landnámsmönnum úr ýmsum áttum. Þótti það ávalt heilmikill viðburður, er ný lönd voru numin í nágrenninu, og það var einlæglega fagnað yfir hverjum góðum dreng, er bættist í hópinn. Þetta urðu heldur engin vonbrigði. Fjöldi fólks kom suður frá Winnipeg og Nýja Íslandi vorið 1881 og nam ný lönd, svo bygðin jókst óðum.

### 21. LANDNÁMSMENN 1881.

Fróðlegt hefði verið að geta tilgreint alla landnámsmenn jafnóðum og þeir komu. En til þess þyrfti langan tíma og mikinn undirbúning. Hér verða því aðeins fáeinir tilgreindir og það nokkuð af handa hófi, eftir þeim upplýsingum, sem unt hefir verið að afla sér. Norðarlega í bygðinni námu þessir lönd: Þorkell Bessason frá Giljum á Jökuldal í Norðurmúlasýslu, Þorleifur Jóakimsson frá Kóreksstaðagerði í Hjaltastaðaþinghá, Bjarni Pétursson frá Rangalóni á Jökuldalsheiði í Norðurmúlasýslu og Sigurður Pétursson, bróðir hans, Eyjólfur Kristjánsson frá Breiðavaði í Eyðaþinghá í Suðurmúlasýslu og synir hans þrír, Gísli, Jón og Þorsteinn, Björn Kristjánsson Skagfjörð frá Kirkjuhóli í Víðimýrarsókn í Skagafirði, Sigfús Bjarnason frá Staffelli í Fellum í Fljótsdalshéraði og Benedikt bróðir hans, Einar Guðmundsson úr Fljótsdalshéraði, Eggert Gunnlaugsson frá Húsey í Skagafirði, Pétur Jónsson Hillmann frá Hóli á Skaga í Skagafjarðarsýslu, Þorsteinn Ásmundsson frá Kirkjubóli í Staðarfirði í Suðurmúlasýslu, Kristján Kristjánsson frá Stóragerði í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu.

Í Víkurbygð námu þessir lönd: Sigfús Jónsson frá Krossanesi við Eyjafjörð, Bjarni Benediktsson frá Breiðagerði í Lýtingsstaðahreppi í Skagafirði, Jón Gíslason frá Hundadal í Dalasýslu, Gísli Eiríksson frá

son Ármann frá Austurhlíð í Árnessýslu (83), Sigmundur Jónsson frá Hjarðarhaga á Jökuldal í Norðurmúlasýslu (83), Jósef Sigvaldason Walter frá Jórvík í Breiðdal í Suðurmúlasýslu (83), Albert Samúelsson frá Máskeldu í Saurbæ í Dalasýslu, (kom með föður sínum, Samúel Eiríkssyni, frá Máskeldu 1893), Bjarni Bjarnason frá Þórustöðum í Bitru, Trausti Kristjánsson frá Hálsi í Kinn (83), Geirhjörtur Kristjánsson frá Syðra-Hóli í Fnjóskadal (82), Friðbjörn Friðriksson frá Krókum í Fnjóskadal (83), Einar Einarsson Grandy frá Barnafelli í Kinn í Þingeyjarsýslu (83), Sigurjón Kristjánsson frá Brenniási á Mývatnsheiði (83), Ásgeir Guðjónsson úr Kinn (83), Sveinbjörn Sigurðsson frá Ósi í Möðruvallasókn í Eyjafjarðarsýslu (83), Sigfús Jónas Hallgrímsson frá Bakka í Öxnadal (83), Stefán Guðmundsson úr Skagafirði (84), Oddur Jónsson frá Bræðrabrekku í Bitru, og bræður hans, Helgi Jónsson og Guðjón Jónsson (85), Ásmundur Bjarnason frá Broddanesi (85), Snæbjörn Hannesson frá Hrísum í Helgafellssveit í Snæfellsnessýslu (84) og synir hans tveir, Hannes og Vigfús, Benóní Stefánsson frá Hrafnstaðaseli á Fljótsheiði í Þingeyjarsýslu (86).

Sumir þeirra, er hér hafa verið taldir, keyptu jarðir sínar af öðrum og nokkurir þeirra dvöldu um tíma jarðnæðislausir í bygðinni áður þeir keyptu sér jörð og er þá árið, er þeir komu í bygðina, tilgreint.

## 24. FRAMFARIR Í BÚSKAP.

Úr þessu varð jarðyrkjan einlægt meiri og meiri í bygðinni og þeir fleiri og fleiri, er sáu, að hún var nokkurn veginn eina skilyrðið fyrir efnalegum framförum. En fyrir bláfátæka menn var hún í upphafi örðug, því til hennar urðu bændur að kaupa mörg áhöld og þau voru öll um þetta leyti í fjarska háu verði. Jóhann Hallsson og Sigurður Jósúa keyptu kornskurðarvél (*Reaper*), sumarið 1881. Skar hún hveitið niður í skára, svo að öll öxin lágu saman. Varð svo að taka hveitistangirnar og binda með höndunum á jörðinni.

Munu þeir hafa slegið með henni mest af hveiti því, er íslenzkir bændur áttu við Tungá það sumar. Þetta sumar keyptu þeir Víkur-bræður, synir Þorláks frá Stórutjörnum, kornskurðarvél, er *Harvester* nefndist; var hún gömul og kostaði 90 dollara. Stóðu tveir menn á henni meðan hveitið var slegið og bundu jafnóðum og urðu þá að hafa hraðar hendur. Mun Þorsteinn Þorláksson hafa slegið hveiti fyrir Eirík Bergmann og aðra fleiri þetta haust með vélinni. Þeir Tungármenn keyptu fyrstu þreskivélina þetta haust og var Jóhann Hallsson aðalmaðurinn í þeim kaupum. Gekk hún af hestaafli eins og flestar þreskivélar um það leyti. Þreskti vél þessi hveiti fyrir flesta Íslendinga um haustið. Var farið með hana suður í Vík og þreskt hveiti þeirra Víkur-bræðra, sem nú var töluvert mikið, og jafnvel suður í Park-bygð og þar þreskt fyrir nokkura, Hallgrím Gíslason og fleiri. Innlendur maður frá Crystal þreskti fyrir Eirík Bergmann þetta haust og fekk hann 500 *bushel* af hveiti af þeim 20 ekrum, er hann lét brjóta fyrsta sumarið. Seldi hann það í St. Vincent og varð að flytja það um 55 mílur til markaðar; var það löng og erfið leið. Hesta hafði hann keypt sér um sumarið, tvær hryssur, *Polly* og *Dolly*. Voru það fyrstu hestarnir við Park. Nöfn fyrstu vinnudýranna í nýlendunni voru öllum eins kunn og töm og nöfn helztu bændanna; þess vegna er þeirra hér getið. Þeir félagar Benedikt og Sigurjón keyptu sér einnig samoksmúla þetta sumar. Þá fengu þeir sér líka sláttuvél (*mower*). Árið eftir (1882) keyptu þeir *Harvester* og kostaði hann ekki minna en 175 dollara. Næsta ár (83) keyptu þeir þann hluta af sjálfbindara, sem bindur hveitið. Var sá útbúningur settur ofan á vélina, er þeir keyptu sumrinu áður, þar sem tveir menn urðu að standa og binda hveitið. Kostaði sá parturinn af sjálfbindaranum nærri hálft annað hundrað dollara, svo öll vélin, þegar búið var að tengja hana saman á þennan hátt, kostaði á 4. hundrað dollara. Voru það nokkuð dýr kaup.

þótt nú hinir efnaðri bændur gætu klofið að kaupa akuryrkjutól þessi við svona afarháu verði, má nærri geta, að það var öllum þorra nýlendumanna enn ofvaxið. Margir leituðust við að komast af án slíkra kaupa og sættu sig við, þótt þeir með því móti kæmust seinna áfram í búskapnum. Sumarið 1881 munu þeir Grímur þórðarson og Bjarni Olgeirsson hafa heyjað í samlögum ; höfðu þeir báðir ágæt heyskaparlönd. Bjarni átti einn uxa; honum beittu þeir fyrir sleða og drógu svo heyið saman á sleðanum, þótt um sumar væri. Má nærri geta, að örðugleikarnir hafi verið margir fyrir frumbýlingunum, svo nú hafa menn ekki nema mjög ófullkomna hugmynd um, hve mikið hinir fyrstu landnámsmenn lögðu á sig, og hve nærri þeir urðu að ganga kröftum sínum, þótt ekki séu nema liðug 20 ár síðan. En eftir því sem tímar liðu, lækkuðu öll akuryrkjuáhöld í verði, og brátt fór það svo, að hver bóndi átti alls konar akuryrkjuvélar og hver drengur kunni með að fara.

Úr skýrslu, er samin var vorið 1884, um búskapinn í Garðar-bygð, fáum vér þessar upplýsingar : Nú má telja hér 50 íslenzka búendur. Sumir þeirra eiga tvær jarðir. Fólkstal var við byrjun ársins 1884 í Park-bygð 270. Af því er um 50 manns nýkomið fólk, sem enn er landlaust, og nokkurir eiga enn enga skepnu. Íslenzku bændurnir hér í bygðinni eiga nú 28 vinnuhesta, 6 trippi, 73 akneyti, 138 kýr, 184 ungviði, 164 sauðkindur, 47 svín, 505 alifugla. Af akuryrkjutólum eiga þeir 48 plóga, 35 herfi, 13 sáningarvélar, 5 sjálfbindara, 4 *harvesters*, 5 sláttuvélar, 8 heyhrífur, eina þreskivél hálfa—hinn helminginn á norskur maður,—8 vélar til að hreinsa hveiti, 31 vagn og 30 sleða. Plógar kosta 16—20 dollara, sáningarvélar 60 dollara, sjálfbindari 275 dollara, *harvester* 175 dollara, sláttuvél 75 til 80 dollara, heyhrífa 25 til 35 dollara, gufuþreskivél 1700 dollara, hreinsunarvél 24 til 30 dollara, vagn 80 dollara, járnvarinn sleði 27 til 35 dollara.—Akrar voru næstliðið sumar (1883) 1013 ekrur. Af

hveiti fengu menn 15 til 32 bushel af ekrunni, en af höfrum 15 til 70. Sumir sáðu höfrum í nýplægða jörð og fengu því litla uppskeru; bygg höfðu fáir, er teljandi væri. Síðastliðið sumar (1883) færðu menn akra sína hér út um 477 ekrur, svo á næsta sumri hafa íslenzku bændurnir hér í bygðinni 1490 ekrur til að sá í, fyrir utan garða. Garðyrkjan var næstliðið sumar nokkuð misjöfn. Bezta jarðepla uppskeran mun hafa orðið 82 bushel upp af þremur. Stærsti akur hér í Parkbygð var næstliðið sumar (1883) 130 ekrur, annar 95 ekrur, þriðji 80 ekrur. Verð á hveiti haustið 1883 var 75—84 cents fyrir hvert bushel af bezta hveiti ; en svo lækkaði það niður í 40 cts. Þessi mikla verðlækkun var mikið af því sprottin, að sumir fengu ekki þresking á hveiti sínu fyrr en seint, svo haustrigningar höfðu bleytt hveitið í stökkunum meira og minna. — Skattar þóttu nokkuð þungbærir í ár, 3 dollarar og tíu cent af hverju hundraði. Er það meir en þriðjungi meir en í fyrra. Flestir bændur hafa skóg á jörðum sínum og fá sagað talsvert af borðvið, því þrjár sögunarvélar eru nú á gangi, og hjálpar það ekki lítið til, að menn geti aukið og endurbætt húsakynni sín. Hér er gott skólahús og hefir verið haldinn enskur skóli í því 4 mánuði í vetur.—

Svona hljóðar þessi skýrsla ; hún er dagsett 31. marz 1884 og stendur undir henni H. G., sem eflaust þýðir Hallgrímur Gíslason. Það nafn er nægileg trygging fyrir því, að skýrslan sé rétt. Á henni er margt að græða. Sýnir hún t. d. mjög áþreifanlega, hvílíkan dugnað bændur sýndu í því að yrkja jörðina, þegar fyrstu árin. En ekki voru sögunarvélarnar til eins mikilla framfara og gefið er í skyn. Þær voru mest til þess að eyðileggja bezta eikarskóginn, er til var í nýlendunni. Margt ljómandi eikartréð, sem verið hafði ef til vill 100 til 200 ár að vaxa, var nú felt til jarðar, sagað rennandi blautt og viðurinn svo notaður til húsgjörðar áður en hann hafði fengið nokkurn tíma

til að þorna. Verptist hann því allur og aflagaðist og varð að litlum notum.

## 25. Haraldur Þórisson.

Maður er nefndur Haraldur Þórisson og hefir hans þegar verið getið. Hann er norskur að kyni og var um þessar mundir kaupmaður í bænum *Northfield* í Minnesota-ríkinu. Hið eiginlega nafn hans er *Harald Thoresen*, en eftir að hann komst í kynni við Íslendinga, kölluðu þeir hann ýmist Harald Thoroddsen eða Harald Þórsson. Hann hafði lánað síra Páli heitnum fyrstur allra Norðmanna nokkuð af hveitimjöli og heilmarga nautgripi handa nýlendumönnum, eins og áður er ritað. Hann var um þessar mundir orðinn auðugur maður, en hafði þó byrjað sem blásnauður búðarsveinn. Sumarið 1880 kom hann í fyrsta sinn sjálfur norður í nýlenduna með fjölda af gripum og eitt múlasamok, sem þeir keyptu bræðurnir, Þorsteinn og Björn Þorlákssynir í Vík. Nokkuð var verð hátt á gripum þessum og þó ekki öllu hærra en þá var títt. Keyptu þá Íslendingar af honum, allir sem vetlingi gátu valdið, hver í kapp við annan, því lánsfrestur var langur, en vextir háir; gáfu menn þá stundum í veð alt það, er þeir áttu, og var það ósjaldan í allmiklu ráðleysi gjört, án þess hugsað væri um, hvort nokkurntíma mundi lánast að borga. Í nærri því tíu ár átti kaupmaður þessi mikil kaup við Íslendinga og flutti norður mesta sæg af gripum og hestum bæði á vorum og haustum. Glæptust nýlendumenn mjög á að verzla við hann og guldu þess, hve fákænir þeir voru í verzlunarsökum. Margir keyptu á þessum tímum alt, ef þeir að eins fengu það að láni. Kom það þá bezt í ljós, hve lánsverzlunarfyrirkomulagið, er um margar aldir hefir tíðkast á Íslandi, hafði spilt hugsunarhætti manna og nærri orðið nýlendunni að fótakefli. Fyrst framan af keyptu menn að eins nautgripi að honum og gáfu aðra gripi í veð; gekk þá alt vel. En brátt fór hann að selja mönnum hesta og múla. Tveir hestar (samok)

kostuðu um þessar mundir 400 dollara, en tveir múlar 500 dollara. Urðu menn þá að gefa lönd sín í veð. Gætu menn ekki staðið í skilum með vexti og afborganir á réttum tímum, voru jarðirnar oft af mönnum teknar. Urðu menn þá annaðhvort að flæmast burt í fjarlægar óbygðir, eða vera jarðnæðislausir, og var hvorttveggja ilt. Kom þetta fyrir um æði-marga. Kvað svo ramt að þessu, að um tíma héldu menn, að Víkurbygðin mundi eyðast af þessum ófögnuði, því þar höfðu menn mest látið glæpast á prangaraskap þessum. Einn bóndinn þar misti ágæta jörð fyrir að hafa keypt lítinn hest (*pony*) og lélegan, sem til lítils var hægt að nota annars en reiðar. Samt fór þetta ekki eins illa og á horfðist. Með heljarátaki reyndu menn að hrista af sér skuldahlekkina og ,,losast við Thóroddsen." Tókst það svo, að nú fyrir löngu er öll sú hætta, er nýlendunni var búin af viðskiftunum við hann, gengin um garð. En enginn þarf að láta sig furða, þótt það gengi ekki alveg stríðlaust af fyrir bláfátækum mönnum, er allslausir komu á jarðir sínar, að eignast öll þau vinnudýr og áhöld, er hér þarf til að reka búskapinn með. Það er miklu meiri furða, hve vel fjöldanum hefir tekist það. Ekki er Haraldur þessi Þórisson lakari maður við að skifta en svo margur annar. En svo varð hann illa þokkaður fyrir brall sitt, að hann lagði algjörlega komur sínar og kaupskap niður og lætur nú Íslendinga naumast sjá sig.

Fyrsta sumarið, er hann kom (1880), gengu þeir síra Páll og hann upp á Pembina-hæðirnar eða ,,fjöllin", sem kölluð eru. Komu þeir upp á hnjúk einn beint vestur af Vík og kölluðu hann Þórshnjúk eða *Mount Thor* á ensku og þóttust báðir hafa nefnt hnjúkinn eftir feðrum sínum.—Sunnar á hæðunum, vestur af Eyford, er annar hnjúkur. Var hann nefndur Óðinssæti. Þar var skáldinu síra Matthíasi Jochumssyni haldið fjölment samkvæmi, þegar hann kom hér vestur að heimsækja landa sína sumarið 1893.

## 26. SKEMTANIR.

Þótt lífið væri fátæklegt hin fyrstu árin og hagur manna næsta örðugur með ýmsu móti, var fjör og glaðværð mikil með fólki, hvar sem komið var. Menn áttu annríkt og hömuðust við vinnuna, en voru samt furðanlega fúsir að sækja alla mannfundi, oft langar leiðir, annaðhvort fótgangandi eða akandi með uxum og er það þó fremur óskemtilegt ferðalag. Sumarið 1881 var frelsisdagur Bandaríkjanna, 4. júlí, haldinn hátíðlegur hið annað sinn, við Park. Var þá fólk miklu fleira en hið fyrra skiftið og mikið meira um ræðuhöld. Þar var þá kominn bróðir síra Páls, Níels Steingrímur Þorláksson. Hafði hann útskrifast um vorið frá skólanum í Decorah með ágætum vitnisburði og horfið norður í nýlenduna til fólks síns. Hélt hann ræðu við þetta tækifæri, en var fremur stirður í íslenzkunni eins og von var. Ýmsir aðrir héldu ræður og var skemtun hin bezta.

Hina fyrstu vetur voru samkvæmi ekki svo sjaldan á ýmsum stöðum. Var þá sungið og dansað og leikið á harmoniku. Ræður voru oft einnig fluttar og mælt fyrir ýmsum minnum. Fyrsta og annan veturinn var oft glatt á hjalla á heimili Eiríks Bergmanns og var þar hvert samkvæmið á fætur öðru, bæði vegna þess þar voru húsakynni betri en annars staðar og svo vegna hins, að það var betur efnum búið en önnur heimili og gestum ávalt hinn bezti sómi sýndur. Var þar oft haldin mörg fjörug ræða um framtíð nýlendunnar og önnur efni og stundum látið fjúka í kviðlingum. Var þar ýmislegt hagort fólk samankomið. Má þar fyrstan telja Stefán Guðmundsson, skáldið, Karólínu Dalmann, konu Gísla Jónssonar Dalmann, Sigurð Sigurðsson Ísfeld, Jakob Líndal og Helgu konu hans. Þá þóttu þeir Ólafur Ólafsson frá Espihóli, Jónas Hallgrímsson og Kristinn Kristinnsson gleðimenn miklir um þessar mundir og létu oft vængjuð orð frá sér fljúga í samkvæmum. Stundum fóru menn jafn-

vel að yrkjast á og vildi þá stöku sinnum grána gamanið, en aldrei var það nema í svip. Varð svo mikið fjör í ljóðagerðinni, að ekki var örgrant um, að sá er snemma morguns legði á stað frá heimili sínu eftir förnum vegi, kynni að finna brag um sjálfan sig eða einhverja aðra hangandi í limum trjánna með fram veginum. Mest var fjörið að vetrarlaginu. Þá voru annir ekki eins miklar. Á sumrin var alt fjörið oftast látið ganga til vinnunnar. Stundum bar svo við, að einhverjum ungum manni norður í Víkur-bygð flaug sú fregn í eyra, að samkvæmi ætti að vera suður við Park, er allir væru velkomnir í,—svo var annars um öll samkvæmi á þessum dögum—, og að þar mundi líka eiga að verða dans. Var þá ekki ómögulegt, að honum kynni í hug að koma, einhver stúlka, er honum þætti gaman að að bjóða á samkomuna. Fór hann þá að brjóta heilann í, hvernig hann mætti koma þessu til leiðar. Gangandi gætu þau ekki farið, það væri óhugsandi. Tók hann það þá ef til vill til bragðs, að fara til einhvers nágranna, sem bjó svo sem í þriggja eða fjögra mílna fjarlægð, fá hjá honum uxasamok og vagn og bjóða svo stúlkunni til farar. Vel gat svo farið, að hann yrði þess fyrst var, er stúlkan ætlaði að klifra upp í vagninn, að vagnkassinn var helmingi dýpri en vanalega, svo þegar stúlkan var komin upp í trésætið, sem ef til vill var með fjöður undir öðrum enda, en engri undir hinum, sveif hún þarna óraleið fyrir ofan hann og náði hvergi fótum sínum niður. Sjálfur mátti hann búast við að ganga alla leið og teyma uxana, því hjá íslenzku bændunum urðu akneyti sjaldan betur tamin en svo, að teyma þurfti. Nú voru að minsta kosti 8 mílur til skemtistaðarins. Alla leiðina þurfti hann því að ganga, en hún að láta fæturnar lafa ofan úr sætinu. Stundum kunni það að atvikast, að honum varð litið ofan á fötin sín og sá hann þá að komið var gat á skóinn undan stóru tánni, eða stóra bótin á hnénu á honum varð til að hneyksla hann. En hann herti upp hugann, togaði rauða silkivasaklútinn

upp úr vasa sínum, því hann var eina almennilega plaggið, er hann átti í eigu sinni, leit svo á ská upp til hennar, er sat í háa sætinu, eins og hann langaði til að spyrja: Ertu nokkuð óánægð með mig? Aumast af öllu var, ef dansinn var á enda eða í þann veginn, þegar á samkvæmisstað kom, en það vildi ekki svo sjaldan til, einkum ef uxarnir voru óþægir.

### 27. FJALLABYGÐIN.

Árið 1881 fóru menn þegar að finna til þess, að nú var farið að þrengjast í bygðinni. Færri voru farnir að fá lönd en vildu. Annarra þjóða menn voru þá búnir að umkringja landnám Íslendinga á alla vegu, svo bygðin þokaðist eftir það ekki mikið út fyrir þau takmörk, er hún þegar hafði fengið. Tóku þá nokkurir það til bragðs að flytja upp á Pembinahæðirnar og nema þar lönd einar tíu tólf mílur norðvestur af Víkinni í Cavalier County. Árið 1881 námu þessir þar lönd: Stígur Þorvaldsson frá Kelduskógum á Berufjarðarströnd í Suðurmúlasýslu, Stefán Guðmundsson af Berufjarðarströnd, Jón Jónsson frá Kolgröf í Skagafirði, Pétur Jónsson frá Bót í Hróarstungu, Ólafur Einarsson frá Rangá í Hróarstungu, er numið hafði land áður niðri á Sandhæðum, eins og fyrri er ritað. En árið eftir komu miklu fleiri upp á fjöllin á eftir þeim (1882): Gísli Benjamínsson frá Mel á Hólsfjöllum í Norðurmúlasýslu, Jón Guðmundsson af Berufjarðarströnd, Jón Jónsson frá Munkaþverá í Eyjafirði, Kristinn Hermannsson úr Skagafirði, Jóhannes Jasonarson Þórðarson frá Vatnsenda í Vesturhópi í Húnavatnssýslu, Jakob Jónsson frá Munkaþverá, Björn Pétursson frá Hallfreðarstöðum í Hróarstungu. Arið 1883 bættust enn við: Haraldur Pétursson frá Ánastöðum í Hjaltastaðaþinghá, Gunnlaugur og Jóhann Jónssynir frá Þorvaldsstöðum í Skriðdal, Steingrímur Grímsson frá Kópareykjum í Reykholtsdal í Borgarfjarðarsýslu (86), Hermann Bjarnason frá Viðfirði við Norðfjörð í Suðurmúlasýslu (1893).

þessi fjallabygð hefir þrifist vel, en er þó nú orðin nokkuð fámennari en hún var, því nokkurir hafa flutt burt og aðrir dáið. En mörgum hefir búnast þar alt eins vel og löndum þeirra fyrir neðan fjöllin. Félagsskapur hefir ávalt verið þar hinn bezti, þó bygðin sé fremur fámenn. Söfnuður var myndaður þar af síra Hansi Thorgrimsen, er þá var prestur í Vík, árið 1884. Var fyrsta guðsþjónustan flutt í húsi Péturs Jónssonar snemma vors það ár. Síra Friðrik Bergmann, sem árið 1886 tók við prestsskap eftir síra Hans Thorgrímsen í nýlendunni, tók að sér að þjóna þessum Fjallasöfnuði eins og hinum. Árið 1889 var lestrarféleg stofnað. En kvenfélag var myndað 1892. Söfnuðurinn reisti kirkju 1894. Hún er 22x30 fet á stærð með forkirkju 8x10. Bindindisfélag, Good-templarastúka, reis upp 1898. Nýlendubúar ráku verzlun sína fyrst á Olga, en síðan eiga þeir allan kaupskap sinn á Milton, hér um bil 8—10 mílur í suður frá aðalstöðvum bygðarinnar.

## 28. LÁT SÍRA PÁLS ÞORLÁKSSONAR.

Eins og fyrr er á vikið, þjáðist síra Páll Þorláksson af megnu heilsuleysi allan þennan tíma. Var það brjóstveiki sú, er tæring nefnist, og leiddi hún hann til bana. Sumarið 1881 kvað svo mikið að heilsuleysi hans, að honum var um megn að prédika guðs orð fyrir söfnuðunum. Samt leitaðist hann við að halda guðsþjónustusamkomum uppi meðal fólksins. Hafði hann Níels stúdent, bróður sinn, með sér á sunnudögum og lét hann lesa prédikun fyrir söfnuðinum úr einhverri postillu, en sjálfur átti hann oft tal við fólkið á eftir um kirkjuleg og kristileg efni. Var áhugi hans í þeim efnum eins brennandi og áður, þó líkaminn væri bilaður að heilsu. Einstöku sinnum mun hann þó hafa prédikað þetta sumar. En þegar veður fór að harðna um haustið varð hann að hætta algjörlega. Á ársfundum safnaðanna snemma í janúar 1882 gjörði hann grein fyrir gjöldum þeim, er honum höfðu greiðst

frá söfnuðunum á árinu, og voru það samtals $202.00 í peningum, 29 búshel af hveiti, 9 búshel af höfrum og 23 dagsverk. Af því höfðu 54 dollarar, 9 búshel hveitis og 6 búshel hafra goldist frá Parksöfnuði, 95 doll., 8 búshel hveitis, 3 búshel hafra og 22 dagsverk, frá Víkur-söfnuði, en frá Tungár-söfnuði 53 dollarar, 11 búshel hveitis og eitt dagsverk. Mest af loforðum safnaðarmanna, er gjörð voru árinu áður, höfðu goldist. Samt var ¼ af þeim ógoldinn frá Tungársöfnuði. 300 dollara styrk segist hann hafa þegið frá norsku sýnódunni, þetta ár, svo laun hans hafa verið kringum 500 dollara síðasta árið, er hann lifði. Þegar á leið veturinn, elnaði veikin, og mun hann sjálfur hafa skilið, að endirinn mundi nærri. Síðustu mánuðina, er hann lifði, leitaðist hann af alefli við að fá því til leiðar komið, að söfnuðirnir sendu Hansi Thorgrimsen, er þá átti að útskrifast á næsta vori frá prestaskólanum í St. Louis, köllunarbréf, upp á það, að hann tækist á hendur prestsþjónustu í nýlendunni, annaðhvort sem aðstoðarmaður síra Páls, ef hann lifði, eða að öðrum kosti tæki þessa þrjá söfnuði algjörlega að sér.

En svo kom að síðustu, að hann fekk ekki lengur hugsað um mál nýlendunnar og veitt þeim forstöðu. Síra Páll Þorláksson andaðist á heimili sínu 12. marz, vorið 1882 og var jarðsettur 2. apríl. Veturinn 1882 var einhver hinn mesti snjóavetur, er menn muna. Seinni part vetrarins rak niður feikna fönn, svo ekkert varð komist nema á skíðum og mörg hjartdýr elt uppi í snjónum og drepin með lurkum, því þau komust ekkert fyrir ófærðinni. Þrátt fyrir þessa örðugleika var norskur prestur fenginn, *Kristján Flaten* að nafni, til að vera við jarðarför síra Páls heitins. Hélt hann líkræðu á norsku fyrir fjölda fólks, sem við var statt, þrátt fyrir þá ógurlegu ófærð, sem á jörðunni var. Bróðir hans, Níels Steingrímur Þorláksson, hélt einnig ræðu á íslenzku til safnaðarmanna síra Páls, sem nú

hörmuðu hinn ötula og mikilhæfa leiðtoga sinn og sálusorgara.

Fráfall síra Páls svo snemma á æfinni, er eitt hið raunalegasta atvik í landnámssögu Íslendinga í Ameríku. Hann var að eins á 33. ári, er hann lézt, (f. 13. nóv. 1849). Hann var að mörgu leyti einn hinn merkasti Íslendingur, sem uppi hefir verið á síðustu tímum. Hann var gáfumaður mikill og ágætur námsmaður, fastur í lund, með brennandi áhuga og einbeittan vilja, heitur trúmaður, er engar torfærur óttaðist, af því hann treysti drotni. Þegar hann sá eitthvað, er gjöra þurfti, hugsaði hann aldrei um örðugleikana, heldur varpaði sér út í það og barðist um, þangað til það var framkvæmt, hvað sem það kostaði. Enginn Íslendingur hefir átt í eigu sinni þá trú, er flytur fjöll, ef hann átti hana ekki. Auk þess var hann flestum hinum beztu mannkostum gæddur, einlægur og blátt áfram, hreinn og beinn í öllum viðskiftum, opinskár og hreinskilinn, svo viðkvæmur, að hann þoldi ekki að horfa á neinn eiga bágt, án þess að hjálpa, svo óeigingjarn, að hann gaf aumingjanum, er uppi stóð ráðþrota, sinn síðasta eyrir, ef því var að skifta. En hann var ekki talhlýðinn maður. Það var mjög torvelt að eiga lengi tal við hann, án þess að fara að þrátta. Svo hélt hann sinni skoðun fast fram í öllu. Það var eins og hann hefði blýfasta sannfæringu um alt og frá henni var ekki unt að víkja honum. Trúarskoðanir hans þóttu nokkuð þröngar og voru það óneitanlega. En kringum þennan brennheita trúarinnar mann logaði þá vantrúin í alls konar myndum meðal landa hans, og hann setti sér því fyrir að prédika hinn þrönga veg, er til lífsins leiðir, og vara menn alvarlega við hinum breiða. Hann var sí-talandi, þegar hann hafði einhvern nálægt sér. Hann var stiltur og sannfærandi prédikari, en síður það sem kallað er andríkur. Hann bjó sig ætíð vel og samvizkusamlega undir guðsþjónustur sínar, skrifaði flestar ræður, er hann flutti,

en prédikaði þó við og við, án þess að hafa fært í letur, nema nokkura minnispunkta.

29. LANDNÁMSMENN UM OG EFTIR 1882.

Árið 1882 bættust enn margir bændur við í bygðina. Voru nokkurir þeirra úr nýlendunni í Nýja Skotlandi. Skulu hér nokkurir nafngreindir : Brynjólfur Brynjólfsson frá Skeggstöðum í Húnavatnssýslu (og synir hans, Skafti, Ólafur, Jónas, og Magnús). Sigurður Jónsson frá Torfufelli í Eyjafirði, Stefán Brynjólfsson frá Botnastöðum í Húnavatnssýslu, Guðbrandur Erlendsson úr Múlaþingi, Jón Rögnvaldsson og sonur hans, Jón Hillmann frá Hóli á Skaga, Jón og Sigurður Einarssynir frá Hnappdal í Dalasýslu, Kristinn Hermannsson úr Tungusveit í Skagafirði, Jósef Guðmundsson af Skagaströnd í Húnavatnssýslu, Jóhannes Árnason frá Bakka í Hólmi í Skagafjarðarsýslu.—Kristján Sigurðsson Bakkmann frá Akureyri, Sigurður Kristjánsson frá Ytra-Lóni á Langanesi, Jóhannes Jónsson frá Bjarnastöðum í Kolbeinsdal í Skagafirði, Þorfinnur Jóhannesson frá Brekkukoti í Hjaltadal, Guðmundur Pétursson frá Smiðsgerði í Kolbeinsdal, Jón Jónsson Frímann frá Köldukinn í Dalasýslu, Guðmundur Eiríksson frá Helluvaði í Rangárvallasýslu, Lárus Björnsson Frímann frá Harrastöðum í Miðdölum í Dalasýslu.—Jón Jónsson (Mæri) frá Einfætingsgili í Strandasýslu.—Seinna komu þessir : Sigurjón Jóhannesson frá Syðra-Lóni á Langanesi í Þingeyjarsýslu (83), Metúsalem Einarsson frá Fagranesi á Langanesi (84), Jóhannes Torfason frá Eldjárnsstöðum á Langanesi (84) Jón Jónsson Söldal frá Hvammsstöðum á Langanesi (85).—Sigurður Gíslason og Eggert sonur hans frá Bæ á Selströnd við Steingrímsfjörð (83), Hannes Jónsson frá Álftagerði í Seiluhrepp í Skagafirði (83), Jónas Sturlaugsson frá Dunustöðum í Laxárdal í Dalasýslu (83), Bjarni Jónasson frá Ási í Húnavatnssýslu (83), Jón Gíslason frá Flatatungu í Skagafirði (83), Sigurður Sakaríasson frá Kambi við Gilsfjörð (83), Vigfús Halls-

son frá Krossi í Kinn (83), Finnbogi Erlendsson frá Víðirkeri í Bárðardal (83), Guttormur Sigurðsson af Langanesi (83), Jóhann Sveinsson úr Fljótsdal, Nikulás Jónsson frá Seyðisfirði (84), Björn Halldórsson frá Úlfsstöðum í Loðmundarfirði (84), Sæmundur Eiríksson frá Kaldbak í þingeyjarsýslu (83), Dínus Jónsson frá Mýlaugsstöðum í Reykjadal í þingeyjarsýslu (83), Jóhannes þórðarson frá Vestdalseyri við Seyðisfjörð (83), Björn Sveinsson frá Efranúpi í Miðfirði í Húnavatnssýslu (84), Hjálmar Hjálmarson frá Eyrarlandi við Akureyri (87).

### 30. PÓSTAFGREIÐSLUSTAÐIR.

Af dagbók einni, sem eg hefi með höndum, sé eg, að sunnudaginn 6. feb. 1881 hefir Sigurður Jósúa Björnsson komið til Jóhanns Hallssonar með bænarskrá til stjórnarinnar um, að tveir póstafgreiðslustaðir yrðu settir í bygðinni, annar suður í Vík hjá síra Páli þorlákssyni, hinn hjá Sigurði Jósúa sjálfum. Var nú verið að fá menn til að rita nöfn sín undir þessa bænarskrá. Var um leið kvartað í skjali þessu til stjórnarinnar um óreglulegar póstgöngur til Cavalier. Einnig var þess farið á leit í sömu bænarskránni, að stjórnin stækkaði nýlendusvæði Íslendinga á þann hátt, að hún keypti meira land af Indíánum. Bænarskrá þessi mun hafa haft þann árangur, að skömmu síðar voru póstafgreiðslustaðir þeir, er þar var beðið um, settir. Fengu þá báðir staðirnir ný nöfn og voru bæði ensk. Var póstafgreiðslustaðurinn hjá Sigurði Jósúa nefndur *Coulee*, en hinn suður í Víkinni *Mountain*. Var pósturinn fluttur í milli einu sinni hverja viku og var þorlákur Jónsson frá Stórutjörnum fyrsti pósturinn frá Mountain, norður til Coulee og þaðan til Cavalier; flutti hann póstinn á Úlfari. Síðar (1883?) var póstafgreiðslan á Coulee lögð niður og flutt á jörð Jóhanns Hallssonar, þegar þar var farið að verzla. Var þá nöfnunum breytt og staðurinn nefndur *Hallson* eftir Jóhanni Hallssyni, hinum fyrsta landnámsmanni

bygðarinnar, og átti það mjög vel við. Hefir það haldist síðan, svo nú er fyrir löngu hætt við að tala um Tungárbygð, en bygðin að vestanverðu kend við Hallsson og nefnd Hallson-bygð, en bygðin þar austur af aftur kend við Sandhæðirnar. — Nú hættu menn líka smám saman að tala um Vík og Víkurbygð, en kendu bygðina við póstafgreiðslustaðinn og kölluðu hana *Mountain*-bygð.

Vorið 1882 var póstafgreiðslustaður settur við Park hjá Eiríki Bergmann. Var hann nefndur *Garðar*, eftir sænska sjógarpinum er fann Ísland. Það er því misskilningur að beygja orðið eins og væri það fleirtala af orðinu *garður* (görðum). Var póstur fyrst borinn frá Garðar ofan til *Crystal*; voru það tveir Jónar Jónssynir, er þann starfa höfðu fyrst á hendi. Hlaut annar þeirra auknefnið póstur upp úr því. Hefir Eiríkur Bergmann verið póstmeistari þar ávalt síðan.—Nafnið Park-bygð er nú orðið úrelt og í stað þess er öll sveitin þar í kring kend við Garðar og kölluð Garðar-bygð.

Nokkuru seinna var enn skipaður póstafgreiðslustaður hjá Stígi Þorvaldssyni frá Kelduskógum á Berufjarðarströnd. Hann nam fyrst land upp á Pembinafjöllum, eins og áður er ritað, en flutti seinna ofan á svo-nefndar Sandhæðir og settist að 5 mílur fyrir vestan Cavalier. Sá póstafgreiðslustaður var nefndur Akra ,,pósthús". — Um nokkur ár var einnig póstafgreiðslustaður hjá Jakob Sigurðssyni Eyford cg nefndist *Eyford*. Síðar hefir hann verið látinn niður falla, en nafnið helst við bygðina, svo nú er sveitin á milli Garðar og Mountain ætíð kölluð Eyford-bygð. — Enn er einn póstafgreiðslustaður nýmyndaður norðast í bygðinni, 4¼ mílu norðaustur af Hallson og nefnist *Svold*; það var ekki fyrr en árið 1899. Heitir sá Halldór Vívatsson, sem þar er póstafgreiðslumaður.

## 31. VERZLUN OG KAUPMENN.

Fyrsta íslenzka verzlunin kom upp á Mountain. Eins og fyrr er á vikið byrjaði Haraldur þorláksson þar verzlun skömmu eftir, að bygðin hófst þar, þótt í smáum stíl væri. Fekk hann fyrst vörur hjá næstu kaupmönnum (*Yerxa*), en síðar fór hann suður til *St. Paul* og fekk vörur sínar hjá stórkaupmönnum þar. Hafði hann þó alls engan höfuðstól til að byrja með og sögðu stórkaupmennirnir, að það væri í fyrsta sinni, að þeir hefðu látið af hendi vörur við öldungis félausan mann. Óx nú verzlunin mjög, því bygðin var nú orðin fólksmörg. En verzlunin var lánsverzlun eingöngu að heita mátti eins og tíðkaðist á Íslandi. Var því ekki við að búast að vel gengi. þegar bróðir Haraldar, Níels Steingrímur þorláksson, kom norður sumarið 1881 að afloknu skólanámi sínu, tók hann að hjálpa Haraldi við verzlunina og blómgaðist hún þá um tíma í bezta lagi. Höfðu þeir mörg önnur störf á hendi, er almenning vörðuðu, en einkum voru þeir mönnum hjálplegir, er til þess kom að sanna ábúð á jörðunum, svo menn gætu fengið eignarrétt fyrir þeim hjá stjórninni (*to prove up*). Fengu þá flestir peningalán um leið upp á jarðir sínar. Höfðu þá lánfélögin ýmsa millimenn í þeim sökum og voru þeir Haraldur þorláksson á Mountain og Eiríkur Bergmann á Garðar fyrstu Íslendingarnir, er allir nýlendumenn áttu við í þessum sökum.

Sumarið 1882 byrjaði ofurlítil verzlun á Garðar. þeir Eiríkur Bergmann og Friðrik Bergmann, frændi hans, er hafði verið kennari á alþýðuskóla suður í Minnesota um veturinn, en komið norður og numið land fyrir sunnan Garðar um vorið, mynduðu ofurlitla félagsverzlun og kölluðu hana *Bergmann Bro's*. En seinni part sumars árinu eftir fór Friðrik til Norðurálfunnar til að lesa guðfræði. Hélt Eiríkur Bergmann þá verzlun áfram einn og færði hana mikið út og reisti vandaða búð. En um veturinn 1885 brann hún með öllum

vörum, er í henni voru, og var það hinn mesti skaði. Seldi hann nokkuru síðar ungum manni, Gunnlaugi Vigfússyni Peterson, verzlunina í hendur, og rak hann hana um tíma. Síðar tók Jón Sigfússon Bergmann við verzlun á Garðar og rak hana um uokkur ár, þangað til Eiríkur Bergmann tók aftur við henni og hefir nú stundað hana sjálfur síðustu árin. Magnús Breiðfjörð úr Ísafjarðarsýslu setti upp verzlun í smáum stíl á Garðar og stundaði hana, þangað til hann dó. En eftir hann tók sonur hans, Stefán Breiðfjörð, við henni.

Árið 1887 varð Haraldur Þorláksson að hætta verzlun á Mountain. Sjálfur hafði hann aldrei haft neinn höfuðstól til að reka verzlun sína með, en hún verið aðallega láns verzlun. Átti hann því oft stórfé standandi úti í lánum hjá ýmsum og vildi það gjaldast misjafnlega eins og gengur. Tók þá við verzlun á Mountain ungur maður, norskur, *Ole Öie* að nafni. Hann giftist íslenzkri konu, dóttur Ólafs Ólafssonar frá Þríhyrningi í Eyjafirði. Hann rak þá verzlun um nokkur ár. Loftur Guðnason úr Skagafirði fór um þetta leyti einnig að stunda þar verzlun. Árið 1893 hóf Elís Þorvaldsson frá Kelduskógum á Berufjarðarströnd verzlun á Mountain og hefir hún blómgast með hverju ári síðan. Nú hafa þeir bræðurnir, Halldór og Egill Reykjalín, synir Halldórs Friðrikssonar Reykjalín frá Kvennabrekku í Dölum, einnig allmikla verzlun á Mountain.

Árið 1883 fluttist Jón Pétursson Skjöld frá Berunesi á Berufjarðarströnd til Ameríku, settist að á Hallson og byrjaði þar verzlun. Rak hann hana til dauðadags og var póstafgreiðslumaður um leið. Sonur hans, Pétur Skjöld, kom hingað til Ameríku 1885. Byrjaði hann verzlun á Edinburg haustið 1888, en flutti þaðan eftir lát föður síns til Hallson haustið 1894 og hefir rekið þar verzlun síðan. Stígur Þorvaldsson, sem áður er getið, hefir stundað verzlun á Akra síðan hann kom þangað og á fjöldi manns viðskifti við hann í

norðausturhluta bygðarinnar. Auk þess að hafa viðskifti við þessa íslenzku kaupmenn í bygðinni sjálfri, eiga bændur mikinn kaupskap í járnbrautarbæjunum í kring, þar sem þeir selja hveiti sitt á haustin. Þar hafa þá líka myndast íslenzkar verzlanir hin síðari árin. Í Edinburg, svo sem þrjár mílur fyrir sunnan bygðina, hafa Melstaðabræður, Einar og Benedikt Melsteð, rekið verzlun með alls konar matvöru og álnavöru. Þar er líka Hermann Hjálmarsson Hermann frá Húsavík, er að heiman kom 1890, og verzlar með akuryrkjuáhöld í félagi við norskan mann. Á Milton, sem er fyrir vestan bygðina, uppi á Pembina-fjöllunum, hefir Björn Þorláksson Björnsson frá Fornhaga rekið verzlun á annað ár. Sækja til hans af Íslendingum helzt þeir, er búa þar uppi á fjöllunum, en auk þeirra margir aðrir. Í Edinburg er banki nýlega settur á stofn ; er hann rekinn af tveimur mönnum ; annar þeirra er Íslendingur, Aðalsteinn Jónsson, sonur Jóns bónda Ólafssonar, er eitt sinn var á Rifkelsstöðum í Eyjafirði og Halldóru Ásmundsdóttur, systur Einars Ásmundssonar í Nesi í Höfðahverfi. Hann er fyrsti íslenzki bankaeigandinn í Ameríku. Þar er líka gefið út blað á ensku, er *Edinburg Tribune* heitir, og er Íslendingurinn Kolbeinn Þórðarson úr Borgarfirði eigandi þess og ritstjóri. Einnig er þar íslenzkur læknir, dr. B. J. Brandson, dóttursonur Guðbrandar heitins Sturlaugssonar í Hvítadal og sonur Jóns Brandssonar frá Brekku í Saurbæ. Lyfjabúð er þar líka íslenzk og heitir lyfsalinn Benedikt Hanson. Tíu mílur fyrir sunnan Edinburg er bærinn *Park River*. Þar býr dr. Móritz Halldórsson læknir, sonur yfirkennara Halldórs Friðrikssonar í Reykjavík. Í bænum *Hensel*, 6 mílur fyrir sunnan Cavalier, býr dr. Magnús Halldórsson, sonur Björns Halldórssonar frá Úlfsstöðum í Loðmundarfirði í Norður-Múlasýslu. Í bænum Cavalier, er svo oft hefir nefndur verið hér að framan, búa þeir málfærslumennirnir Daníel Jakob Laxdal, hálfbróðir Eggerts Laxdal, kaupmanns á Akureyri, og

Magnús Brynjólfsson, sonur Brynjólfs Brynjólfssonar frá Skeggstöðum í Húnavatnssýslu.

### 32. ALÞÝÐUSKÓLAR.

Árið 1882 komust alþýðuskólar á fót. Fyrsta skólahúsið var reist á Garðar þá rétt fyrir jólin. Fyrsti kennarinn þar var Friðrik Bergmann, er tekið hafði latínuskólapróf verið 1881, ásamt Níels Steingr. Þorlákssyni, við Luther College í Decorah í Iowa-ríki. Á Mountain var skóli haldinn fyrst í húsi, er gjört hafði verið á jörð Níelsar fyrir vestan Mountain, og var hann þar fyrstur skólakennari. Síðar var reist skólahús á Mountain. Smám saman fjölguðu skólahúsin í bygðinni, svo nú munu þau orðin um 20. Er mikill meiri hlutinn af börnum og unglingum, er á þau ganga, íslenzk, þó fáein af öðrum þjóðernum kunni að vera innanum. Kennararnir eru langoftast íslenzkir og þeir, sem í skólastjórn sitja, Íslendingar. Kennslutíminn á flestum þeirra er 6—7 mánuðir á ári; á Mountain er skólatíminn oft 9 mánuðir. Kenslan er með öllu ókeypis fyrir börnin og aðstandendur þeirra, því skólunum er haldið við af almanna fé. Kaup kennaranna er frá 35—50 til dollarar.

### 33. SVEITARSTJÓRN.

Eins og kunnugt er, er hverju ríki í Bandaríkjunum skift niður í svo og svo mörg *counties*. Svarar county helzt til þess, er vér nefnum sýslur á Íslandi. En hverju county er aftur skift niður í svo og svo mörg *townships*. Svarar hvert township aftur til þess, er vér nefnum hreppa á Íslandi. Stjórn county-anna er í höndum nefndar einnar, er *County Commissioners* nefnast. Það er eins konar sýslunefnd, en hefir miklu víðtækara verksvið en sýslunefndir á Íslandi. Eru nefndarmenn skyldir að lögum til að koma saman ekki sjaldnar en fjórum sinnum á ári. Hafa þeir öll fátækramál sýslunnnar á hendi, sjá um greiðslu skattanna og hafa útborgun á hendi til allra embættismanna

sýslunnar, sjá um lagning brúa og ýmislegt annað. Hverju *township* er líka stjórnað af nefnd manna,— hreppsnefnd; kallast þeir *supervisors*, er í henni sitja, og eru þrír. Auk þess er skrifari kosinn í hverjum hrepp (*clerk*), virðingamaður (*assessor*), tveir friðdómarar (*justices of the peace*), tveir löggæzlumenn (*constables*), umsjónarmenn veganna o. s. frv.

Árið 1882 komst á regluleg sveitarstjórn í öllu Pembina County, þar sem íslenzka bygðin er; áður höfðu township ekki verið komin á nema á stöku stöðum. Hvert vanalegt township er ferhyrningur, 6 mílur enskar á hverja hlið. En við þessa fyrstu hreppamyndun voru Garðar-, Eyford- og Mountain-bygðirnar allar sameinaðar í eitt township, sem var 12 mílur frá norðri til suðurs, en 6 mílur á breidd. Það kallaðist *Þingvalla*-township. En þetta fyrirkomulag hélst ekki nema þangað til 1886. Þá var þessum stóra hrepp skift sundur í miðju. Hélt norðurhlutinn nafninu Þingvellir, en suðurhlutinn var nefndur Garðar-hreppur. Fyrir norðan Þingvallahrepp tekur við annar tólf mílna langur hreppur með frakknesku nafni og heitir *Beaulieu*. Í þeim hreppi er Hallson-bygðin og nær nokkuð norður fyrir hann miðjan. Fyrir austan hann eru tveir hreppar; heitir sá norðari *Avon* og nær íslenzka bygðin inn í hann að vestanverðu, en þar eru þó Íslendingar í miklum minni hluta. Suður af Avon, en austur af Beaulieu, liggur Akrahreppur. Það má heita að bygðin þar sé alíslenzk. Suður af Akrahrepp en austur af Þingvallahrepp liggur Park-hreppur. Íslenzka bygðin nær einnig lítið eitt inn í hann. Í þessum 6 hreppum í norðvestur horninu á Pembina County liggur nú íslenzka bygðin, og geta menn af þessu gjört sér hugmynd um stærð hennar. Þrír hrepparnir, Garðar-, Þingvalla- og Akra-hreppar, mega teljast alíslenzkir, því þótt þar séu einstöku menn af öðrum þjóðernum, gætir þeirra svo sem ekkert. Hér um bil helmingur af Beaulieu-hrepp er íslenzkur, en hann er helmingi stærri en hinir hrepparnir, tólf mílur á lengd.

Svo nær íslenzka bygðin inn í bæði Avon- og Park-hreppa, eins og sagt hefir verið. Öll er hún því á borð við fjóra hreppa eða meira en það ; ef hún lægi í réttum ferhyrning, mundi hún því einar tólf mílur í hvert horn. Hún liggur óslitin frá norðri til suðurs, eins og nú hefir verið lýst, svo fara má frá einum íslenzkum bónda til annars alla bygðina á enda eins og í sveit á Íslandi.

34. KIRKJUÁML.

Eftir lát síra Páls Þorlákssonar voru söfnuðirnir, er hann hafði myndað í nýlendunni, þrír talsins, án allrar prestsþjónustu. Víkur-söfnuður sneri sér til Hansar Thorgrímsen, er útskrifaðist vorið 1882 frá prestaskólanum í St. Louis. Köllunarbréfið var sent 14. júní. Svar hans er dagsett 6. júlí; tekur hann þar við köllun safnaðarins, en hefir við orð að takast á hendur ferð til Íslands áður en hann taki til starfa sem prestur. Hann kom norður snögga ferð að áliðnu sumri. Hafði hann þá tekið vígslu. Viðdvöl hans var mjög stutt, því nú var hann að leggja af stað til Íslands til að heimsækja foreldra og frændur. Hugðist hann að dvelja þar næsta vetur og koma til safnaðanna sumarið 1883. Halldór Briem var þá hinn eini íslenzki prestur hér í landi. Hann var þá um sumarið í Winnipeg og kom eitt sinn suður og flutti guðsþjónustu í öllum bygðunum. Um haustið 1882 fór hann einnig til Íslands alfarinn.

Í ágústmánuði sumarið 1883 kom síra Hans Thorgrímsen aftur úr Íslandsferð sinni. Fyrstu guðsþjónustuna hélt hann í Vík undir berum himni 11. sunnud. eftir trinitatis. Safnaðarfundur var haldinn á eftir og voru það þá 31 húsráðendur, sem tjáðu sig vera í söfnuðinum. Á fundi, sem haldinn var 14. október bættust tíu manns við. Þá vakti síra Hans máls á því, að nauðsynlegt væri fyrir söfnuðinn að koma sér upp kirkju. Síra Páll heitinn hafði haft þær framkvæmdir í því máli, að hann hafði látið fella mikið af eikartrjám

og draga þau saman á einn stað. Hugsaði hann sér að láta gjöra áttstrenda kirkju úr bjálkum eins fljótt og unt væri, en lífið entist honum ekki til þess. Grafreit gaf síra Páll söfnuðinum á jörð sinni áður en hann lézt. Ársfundur safnaðarins, sem haldinn var 11. jan. 1884, ályktaði, að ráðast skyldi í að reisa kirkju. 10. marz um vorið voru 58 húsráðendur innritaðir í söfnuðinn. Þá tók söfnuðurinn þúsund dollara lán hjá Haraldi Þórissyni til kirkjubyggingar. Kirkjusmíðin byrjaði í aprílmánuði um vorið og var ekki lokið fyrr en í ágúst um sumarið. Kirkjan var reist á grafreit þeim, er síra Páll hafði gefið söfnuðinum. Hún var 28 fet á breidd, en 46 á lengd og rúmaði hér um bil 200 manns. Enginn turn var á henni og húsið alt mjög einfalt og óbrotið. En það var fyrsta kirkjan, er Íslendingar reistu í Ameríku. Og þótt sæti, altari og prédikunarstól vantaði í hana í fyrstu, fanst fólkinu mikið hátíðlegra að halda guðsþjónustur sínar þar en annars staðar.

Park-söfnuður kallaði síra Hans Thorgrímsen einnig fyrir prest; þjónaði hann þeim tveim söfnuðum og myndaði líka einn eða tvo norska söfnuði í grend við Mountain. Tungár-söfnuði þjónaði hann eiginlega aldrei reglulega, en flutti þar guðsþjónustur við og við og vann hin nauðsynlegustu prestsverk.

Síra Hans Thorgrímsen fór að gangast fyrir því veturinn 1884, að allir íslenzku söfnuðirnir, sem myndast höfðu hér í landi, sameinuðu sig í eitt allsherjar kirkjufélag. Þá um sumarið hafði síra Jón Bjarnason komið frá Íslandi og tekist prestsþjónustu á hendur í Winnipeg á meðal Íslendinga þar. Tók hann feginsamlega við þeirri hugmynd og gjörðist aðalforgöngumaður hennar, eins og kunnugt er. 2. des. 1884 var nefnd manna kosin í Víkursöfnuði, til þess í sameining við nefndir frá öðrum söfnuðum að semja frumvarp til kirkjufélags laga. Í þá nefnd voru kosnir: síra Hans Thorgrímsen, Halldór Reykjalín, Frb. Björnsson, Haraldur Þorláksson, Jón Pálmason. Bauð þá Víkur-

söfnuður erindrekum frá hinum söfnuðunum, er þessu vildu sinna, að eiga fund með sér að Mountain. Sá fundur var haldinn 23. jan. 1885 og næstu daga og var býsna fjölmennur. Var það fyrsti allsherjar fundurinn, er haldinn var með Íslendingum í landi þessu. Þar voru hin núverandi kirkjufélagslög rædd og samþykt í fyrstu og elstu mynd sinni. Skyldu þau síðan borin upp til samþykkis í söfnuðunum. Á fundi, er haldinn var í Vík 31. jan. voru lög þessi borin upp. Náðu þau þá ekki samþykki safnaðarins fyrir ákvæði í 6. grein um atkvæðisrétt kvenna. Á fundi þeim, er lögin voru borin upp á til endilegra úrslita, hafði það ákvæði að eins tvo meðhaldsmenn. Á hinu 1. kirkjuþingi, er haldið var í Winnipeg 24. júní 1885, mætti þó fyrir hönd safnaðarins síra Hans Thorgrímsen, Sigurður Jósúa Björnsson og Þorlákur G. Jónsson. Var þeim veitt málfrelsi og seinna full réttindi. Þegar heim kom voru kirkjufélagslögin samþykt af söfnuðinum, því á kirkjuþinginu höfðu menn komið sér saman um að sleppa öllum ákvæðum um þetta atriði og láta söfnuðina í því efni sjálfráða.

Um veturinn 1885 hafði nýr söfnuður myndast við Garðar og nefndi hann sig Garðar-söfnuð. Þar voru því tveir söfnuðir fyrir þetta fyrsta kirkjuþing. Sendu þeir báðir erindreka. Park-söfnuður sendi Stefán Guðmundsson Stephanson, skáldið, og Jónas Hall, en Garðarsöfnuður Eirík og Friðrik Bergmann. Hinn síðarnefndi var þá rétt kominn frá Noregi eftir tveggja ára dvöl þar við háskólann. Park-söfnuður hafði samþykt kirkjufélagslögin fyrir kirkjuþing, en Garðar-söfnuður ekki. En eftir kirkjuþing sameinuðust báðir söfnuðirnir og nefndu sig Garðar-söfnuð og gengu þá inn í kirkjufélagið.

Fólkið á Austur-Sandhæðunum hafði um þessar mundir myndað söfnuð, auk Tungár-safnaðar, er síra Páll hafði myndað í upphafi. Báðir þessir söfnuðir sendu erindreka á fyrsta kirkjuþing. Sömuleiðis hafði söfnuður myndast í Pembina-bæ og jafnvel komið sér

